Háttvirti herra!

Meðfylgjandi ritgjörð um sjálfstjórnarmál Íslendinga, leyfi jeg mjer að senda yður, vinsamlegast, og óska jeg að hún mætti verða til nokkurrar skýringar á þessu mest um varðandi velferðarmáli vor allra, bæði að því er snertir afdrif þess á síðasta þingi, og hvernig beri að snúa sjer í endurskoðunarmálinu á því þingi sem fer í hönd.

Jeg hef áður sent samkyns ritgjörðir út í Andvara, en í þetta sinn sendi jeg ritgjörðina beint frá mjer til þeirra, sem jeg álít miklu varða, að íhugi þetta mál vel fyrir þing og fyrir þingmálafundi, þar sem þeir verða haldnir, og skal jeg geta þess, að jeg hef sent eitt eintak af ritgjörðinni þeim bestu mönnum í landinu sem jeg þekki, og þar að auki ýmsum opinberum starfsmönnum, þar á meðal öllum þingmönnum. —

pt. Reykjavík 8. apríl 1897.

Virðingarfyllst.

**Benedikt Sveinsson.**

# Athugasemdir

um

# sjálfstjórnarmálið.

Eptir

Benedikt Sveinsson
alþingismann.



Reykjavík.
Prentsmiðja Dagskrár.
1897.

# Athugasemdir

um

# sjálfstjórnarmálið.

Eptir

alþingismann **Benedikt Sveinsson.**

---

## Á alþingi 1895.

### I.

Nú þá er alþingistíðindin 1895 eru fyrir svo löngu prentuð og send út um landið, gjörum vjer ráð fyrir, að allmargir muni hafa látið sjer annt um, að kynna sjer til hlýtar það, sem fór fram á þessu seinasta alþingi voru, bæði yfirhöfuð, og sjerstaklega í stjórnarskrármálinu, sem er og verður landsins aðalmál, með því undir afdrifum þess er komið afl og orka alþingis í flestum öðrum löggjafarmálum vorum, sjerílagi þeim, sem lúta að politisku sjálfstæði lands vors.

Á hinn bóginn þykjumst vjer og glöggt sjá, að það er töluverðri tímaeyðslu og erfiðleikum bundið, að fá ljóst yfirlit yfir og rekja til rótar tillögur hinna einstöku þingmanna, þó eigi sje nema í stjórnarskrármálinu einu, eins og afstaða þess var á þessu þingi, og þó að þetta sje auð-

vitað vinnandi verk fyrir þá, sem hafa alþingistíðindin, þá mun allur þorri landsmanna fara varhluta af því, að fá tækifæri til þess að sjá þau og lesa.

Með því vjer nú viljum gjöra allt, sem í voru valdi stendur til þess, að hver hugsandi maður í landinu geti fengið glöggva og rjetta hugmynd um það, sem gjörðist á þessu alþingi, sjer í lagi í stjórnarskrármálinu, þá höfum vjer ritað athuganir þær, sem hjer fara á eptir.

Vonum vjer að af þeim muni verða ljóst, hve áríðandi það er fyrir þjóðina yfir höfuð, að veita fyllra athygli og umhugsun þjóðmálunum, en hingað til hefur verið gjört, og að kjósendur landsins sjer í lagi megi ekki í blindni varpa áhyggju sinni á fulltrúa sína, eða sleppa árvökru eptirliti með gjörðum þeirra á alþingi í trausti til loforðs þeirra og fylgis við þjóðarviljann, sem þeir hafa látið í ljósi á kjörfundunum, og að afl og orka alþingis á hinn bóginn er undir því komin, að þjóðin sjalf standi að baki þess með eindreginni festu og einbeittum vilja einkum þegar um þau princips-mál er að ræða, sem sómi þjóðarinnar og sjalfstæði hennar veltur á. En allir sjá, að í röð allra þeirra mála stendur stjórnarskrármálið sjálft langfremst, því undir framsókn þess frá þjóðarinnar hálfu er það algjörlega komið, hvort fósturjörð vor varðveitir landsrjettindi sín eða glatar þeim um aldur og æfi.

Þegar því öðrum eins glundroða og sundurþykkki er hleypt upp á alþingi, eins og gjört hefur verið á þessu seinasta þingi, þá er það óhjásneiðanleg skylda þjóðarinnar, sjálfrar sín vegna, að brjóta til mergjar nýmæli það, sem flokkadráttinn myndaði, og að varpa því og formælendum þess úr vegi, nema því að eins, að sýnt verði með góðum rökum og gildum, að það hafi vikið málinu í heillavænlegra horf en áður var.

Það er því í einu orði tilgangur athugasemda þessara að skýra nánara tillögur og röksemdir hinna alkunnu tillögumanna á alþingi 1895, og líta á hvort þjóðin *geti* veitt fylgi sitt og jákvæði stefnu þeirri framvegis í stjórnarskrármálinu, án þess um leið að bera fyrir borð sæmd sína og landsrjettindi.

## II.

Hvað lá beint við að hver þjóðfulltrúi legði til um málið eptir hinni politisku afstöðu þess?

Sjálfstjórnarmál Íslendinga var í rjettu horfi eptir þingin 1893—94. Hið síðasta spor sem þá var stigið flutti oss áfram beina leið í áttina til þess, sem vjer viljum ná. Næsta spor hefði því verið rjett stigið, ef vjer hefðum haldið fram í stefnu þeirra síðustu þinga.

Vjer höfum leitast við að sýna fram á til hlýtar (sbr. Andvara 16. árg.) hvers vegna Ís-

lendingum sje lífsnauðsynlegt að öðlast meira sjálfstæði í hinum sjerstöku málefnum þeirra, en þeir hafa nú, og að leiðin til þess, eins og nú er komið málum, sje sú, að halda *endurskoðuninni* áfram í sama horfi og áður. Hið fyrra atriði byggist á ótvíræðri reynslu jafnt Íslendinga sjálfra sem annara þjóða, sem búið hafa undir erlendum yfirráðum, og hið síðara leiðir af ómótmælanlegum viðburðum í politiskri sögu lands vors, sem þess vegna ekki verður komist hjá að viðurkenna að sjeu rjettur grundvöllur málsins.

En þótt alþingi vort þannig gerði það sem gjöra átti í þessu aðalmáli voru 1893—94, án þess vjer fengjum lögmætum kröfum vorum framgengt með staðfestingu hinnar endurskoðuðu stjórnarskrár frá hálfu konungs vors, þá var þó endurskoðunarmálinu ekki með því lokið frá vorri hálfu, nje heldur gátum vjer skotið því til framtíðarinnar, hvað vjer ættum að gjöra í því. Hvert ár hefur sitt eigið verksvið og sína eigin ábyrgð. Eptir að *Danastjórn* hafði í *annað* sinn komið því til leiðar við konung vorn, að hann neitaði oss um þá stjórnarbót, sem vjer óhult gjörum kröfu til á siðferðislegum og lagalegum grundvelli, þá bar oss hin brýnasta skylda til þess að gjöra oss ljóst, hvort þá væri með þessu móti það komið fram í málinu, sem gæti rjettlætt það, að vjer legðum árar í

bát með endurskoðunina, eða frestuðum frekari aðgjörðum í því máli til komandi tíma.

Vjer verðum, fyrir vort leyti, að álíta, að það liggi í augum uppi, að hver sá fulltrúi þjóðarinnar, sem greiddi atkvæði með endurskoðunarfrumvarpi síðasta alþingis (1894), hefði hlotið að álíta það eitt sæmilegt fyrir þjóðarinnar hönd að greiða aptur atkvæði með samskonar frumvarpi, nema því að eins, að það sem síðar hafði komið fram, gæfi honum rjett til þess að falla nú frá þeirri kröfu fyrir Íslands hönd, sem hann gjörði 1894.

Að sjálfsögðu hljótum vjer að byggja á því, að allir fulltrúar þjóðarinnar, sem greiddu atkv. með endurskoðunarfrv. alþingis 1894, hafi þá verið og sjeu enn sannfærðir um, að þeir hafi (1894) gjört það eitt, sem skyldan bauð þeim. Sje svo, að nokkur þjóðfulltrúi hafi gengið frá skoðun sinni í því efni, án þess þó að geta með rjettum rökum byggt apturhvarf sitt á orsökum, sem komnar eru fram *eptir* aukaþingið, verða aðrir að láta sjer nægja að bíða þess, að hann snúi enn á rjetta leið. Og vjer verðum að vona, að þess verði ekki langt að bíða, því það eru líkindi til þess, að sá sem á jafnskömmum tíma hringlar með skoðun sína í öðru eins máli og þessu í þá átt sem eigi verður rökstudd, muni ekki þurfa langan tíma til þess að breyta henni aptur í rjetta átt. Þessi von bætir oss það upp,

að vjer getum ekki vænst neins árangurs af því, að leiða rök að máli voru fyrir þessum mönnum, með því slíkt auðvitað einungis getur haft áhrif á þá menn, sem breyta skoðun sinni af skynsamlegum ástæðum, en ekki á hina, sem gjöra það ástæðulaust. Að eins viljum vjer benda þeim, ef nokkrir væru á, að íhuga það rækilega sem framkomið var þá (1894), og að hinir síðari viðburðir eru þeim að svo miklu leyti óviðkomandi. Vjer vísum þeim til ítrekaðrar yfirvegunar á sögu vorri allri og afstöðu endurskoðunarinnar fyrir þingið 1894 með því meiri ánægju, sem vjer ætlum, að þar sje um mjög ljóst og vafalaust mál að ræða.

Vjer viljum nú stuttlega líta á það, sem komið er fram í málinu á tímabilinu 1893—95 og spyrja, hvort það geti í sjálfu sjer rjettlætt fráhvarf þeirra fulltrúa 1895, sem voru málinu fylgjandi 1894.

Hjer er ekki nema um eitt atriði að ræða, er lögð verður áhersla á, en það er konungleg auglýsing 15. des. 1893 með eptirfarandi synjun konungs á hinni endurskoðuðu stjórnarskrá alþingis 1894, sem tilkynnt er með brjefi hins svonefnda ráðgjafa fyrir Ísland 10. nóv. 1894 og sem að öðru leyti dregur af allan vafa um það, hvern hlut *stjórn Dana* hefur átt í þessari staðfestingarsynjun.

Að öðru leyti var ekkert skeð, sem komið

getur til greina í þessu efni annað en það, að eitt ár var enn liðið án þess vjer hefðum fengið sjálfstjórnarkröfunni framgengt.

Að sjálfsögðu ber einnig að geta þess hjer, að næsta samþykkt á endurskoðunarfrumvarpinu hlaut auðvitað að hafa í för með sjer aukaþing enn á ný, eins og að undanförnu, því án þess er hver helst breyting á hinni núverandi stjórnarskrá óhugsandi samkvæmt 61. gr. hennar.

Hvað nú fyrst snertir staðfestingarsynjun konungs, þá kynni mönnum í fljótu bragði að virðast svo, að hún hefði getað gefið þeim fulltrúum ástæðu til þess að hætta við málið 1895 sem fylgdu því fram 1893—94 í von um að það mundi öðlast staðfestingu konungs eptir aukaþingið. En þegar málið er íhugað hverfur sú ástæða jafnskjótt. Því nefnd auglýsing 15. des. 1893, sem kom út svo að segja jafnhliða því, að boðað var til nýrra kosninga, tók það jafnskýrt fram sem hin alþekkta auglýsing 15. nóv. 1885, að hin endurskoðaða stjórnarskrá mundi ekki öðlast staðfestingu konungs, þó hún yrði samþykkt í aukaþinginu. Með öðrum orðum, fulltrúar þeir sem kosnir voru til alþingis 1894, jafnt þeir sem endurkosnir voru og hinir, *gátu* því ekki goldið atkvæði sitt með endurskoðuninni frá 1893 á síðasta aukaþingi í *því* trausti, að hún yrði *staðfest*. —

Hvað sem því líður — er margsinnis hefur

áður verið tekið fram — hve gangstæðar slíkar *fyrirfram* yfirlýsingar eru anda og grundvallarákvæðum stjórnarskipunarlaganna, og hve mjög þær hljóta að gremja þá þjóðfulltrúa, sem annars hafa tilfinningu fyrir og láta til sín taka um hagsmuni og rjettindi þjóðarinnar og löggjafarþing hennar, þá ber þess að gæta að það er sú hin sama Danastjórn, sem kemur því til leiðar að slíku athæfi er beitt hvað eptir annað gegn lögmætum löggjafarsamþykktum alþingis, er svo á eptir kemur til leiðar synjun á staðfesting þeirra, svo í raun rjettri var hin nefnda auglýsing 15. des. 1893 sama sem staðfestingarsynjun, útgefin *áður* en aukaþingið kom saman. Það virðist þá auðsætt, að þeir fulltrúar, sem nú fjellu frá málinu fyrir þá sök eina, að Danastjórn mundi ráða frá konungsstaðfestingu hefðu að sjálfsögðu átt að falla frá því þegar á aukaþinginu 1894, og eins og vjer tókum fram, nær þetta engu síður til hinna *nýkosnu* fulltrúa, er greiddu atkvæði með málinu 1894, en sátu ekki á þingi 1893 — að því *viðbættu*, að sambandið milli atkvæðagreiðslunnar á hinum tveimur þingum, gat í þessu efni alls ekki orðið *þeim* til rjettlætingar. Þeir samþykktu endurskoðuð stjórnarskipunarlög fyrir Ísland með fullri vissu um, að Danastjórn mundi ráða konungi frá staðfestingu þess, án þess að atkvæði þeirra gæti byggst á fyrri framkomu *þeirra* í málinu, og höfðu

þannig enn minni ástæðu til að samþykkja þau lög sem þeir svo ljetu sjer sæma að hverfa frá á næsta þingi.

Og svo er þetta ár sem leið á millil

Átti það ekki einmitt að *hvetja* þingmenn 1895 að tíminn líður og líður, án þess vjer fáum þeim kröfum framgengt, sem þeir vita að eru rjettlátar og sem þeir hljóta að sjá að velferð þjóðar vorrar veltur á? Jú, sannarlega. Hvert ár sem þannig líður, hlýtur að láta menn finna sárara til þess að framfarir vorar eru heptar með óleyfilegum, óþolandi böndum, og þetta hlýtur að styrkja vilja allra góðra Íslendinga í því að gjöra það sem framast stendur í þeirra valdi til þess, að fá hinu núverandi pólitiska ástandi breytt, — og á hinn bóginn að forðast allt það sem heitan eld, er gefur í skyn, að oss skorti *siðferðislegt þrek*, *drengskap* og *karlmennsku* til að knýja fram viðurkenningu á rjettindum fósturjarðarinnar með því meiri festu og einurð sem þau eru optar og bersýnilegar undir fótum troðin. Með vaxandi framförum allra annara frjálsra þjóða, og með vaxandi upplýsing og sjálfsþekking Íslendinga,, sem gjöra mætti ráð fvrir, að hvert ár miðaði fremur til að efla en eyða, hljóta þó þessir dönsku kúgunarhlekkir að verða óbærilegri fyrir alla vini Íslands. En aldrei getur neinn maður, án þess að ganga úr þeirra manna

tölu, sem vilja landinu vel, vikið frá rjettarkröfum þess gegn hinum erlendu stjórnendum fyrir þá sök eina, að hann sje nú orðinn »leiður« á því, að halda þessu máli fram, því hann stendur í þessu efni í *skyldusporum* sem hann eigi getur vikið úr, án þess að bregðast föðurlandinu.

Það liggur einnig beinlínis í því, sem á undan er sagt, að »kostnaðurinn og fyrirhöfnin« við nýja löglega samþykkt á hinni endurskoðuðu stjórnarskrá, gat heldur ekki að neinu leyti rjettlætt fráfall fulltrúa þeirra frá málinu 1895, sem fylgdu því 1894. Þeir vissu þá, að endurskoðunin mundi ekki verða staðfest í þetta sinn. Þeir vissu enn fremur þá, að nýjar kosningar *hljóta* að fara fram, og að aukaþing *hlýtur* að vera kallað saman í hvert skipti, sem breyting á stjórnarskránni er samþykkt af alþingi. Atkvæði þeirra með málinu þá *gat* þess vegna engan *annan skynsamlegan* tilgang haft, en að tengja samþykkt þessa alþingis við samþykkt *komandi* alþingis til þess að bæði fylgismenn og mótstöðumenn þessa allsherjar velferðarmáls landsins, hlytu þó að játa, að oss væri full *alvara* með að halda sjálfstjórnarkröfum þess fram til þrautar, og þetta atriði hafði því meiri þýðingu, sem framkoma ýmsra þingmanna á undanfarandi þingum, því miður, hefur gefið mönnum bæði innanlands og utan, fullkomið til-

efni til þess, að efast um að svo væri, enda getur enginn sagt, hve mikið óbætanlegt tjón þetta hefur unnið málstað vorum bæði beinlínis og óbeinlínis. Þeir fulltrúar, sem með þeirri sannfæring um rjettlæti gjörða sinna, sem maður þó verður að ætla hverjum jafnvel óvöldum þjóðfulltrúa, guldu atkvæði með endurskoðuninni 1894, hafa með öðrum orðum hlotið þá þegar, að gjalda í huganum atkvæði með henni á *komandi* alþingi. Synjunartillaga þeirrar stjórnar, er sitja mundi að völdum 1896 var strangt tekið einnig ósjeð á þinginu 1895, og því síður varð sagt, hvern annan *óbeinlínis* árangur ný samþykkt a endurskoðuðum stjórnarskipunarlögum hefði hlotið að hafa, bæði með tilliti til þess, að efla þrek og samheldi þjóðar vorrar og þings, sem er mikilsvarðandi atriði í þessu máli, og eins til hins, að knýja fram þá sannfæringu og viðkurkenningu vina og óvina, að vjer Íslendingar sjeum og viljum vera þjóð, sem eigi hopar á hæl fyrir lögleysum og rangindum að svo miklu leyti, sem í voru valdi stendur. — Þeim fulltrúum sem fylgdu málinu 1894, en fjellu frá því 1895 hefur því farið jafnvel að mun óhyggilegar en manninum, sem ætlaði að ganga berfættur yfir ísinn, en sneri aptur á *miðri* leið, af því honum fannst of kalt. Fyrir hann voru þó báðar leiðir jafn langar, en fulltrúarnir á alþingi 1895, höfðu alls eigi næga á-

stæðu til þess að efast um, *að skemmra* mundi til lands, *ef* þeir hefðu haldið áfram í stað þess, að snúa aptur.

En nú kunna menn að spyrja: Á þá eineinlægt öll ókomin ár, að halda sjálfstjórnarmálinu áfram í sömu mynd sem nú, þangað til það vinnst hjá Danastjórn? Nei! Það höfum vjer ekki sagt og hefur ekki komið til hugar að segja. Hið einasta sem vjer höfum viljað halda fram hjer að framan er það, að þeir hinir sömu fulltrúar, sem fylgdu málinu á síðasta aukaþingi, vitandi með vissu, að konungur ekki mundi staðfesta það, gátu ekki á næsta árs þingi vikið frá málinu fyrir sakir konungssynjunarinnar einnar. Þeir hlutu til þess annaðhvort að breyta skoðun sinni í málinu eins og það þá lá fyrir, þegar þeir samþykktu það síðast, eða önnur ný atvik hefðu þurft að koma fram, sem hefðu getað haft áhrif í þessu efni. En hvorugt var hjer um að ræða. Enginn maður gat breytt því sem þá lá fyrir, og þeir urðu að byggja skoðun sína og pólitiska sannfæringu á, því enginn getur gjört það óskeð sem er skeð. Málið var þá, eins og það horfði við, rætt til þrautar innan þings og utan, og hin pólitiska saga Íslands um hálfa öld rýmir burtu öllum efasemdum hvers skynberandi manns um það, að alþingi hafi gjört rjett í því að samþykkja hina endurskoðuðu stjórnarskrá 1893—94.

Það sem vjer tölum um hjer er *þessi* afstaða málsins 1895, og þykjumst vjer hafa sýnt fram á, þó með fáum orðum sje, að engin þau atvik hafi komið fram milli tveggja síðustu þinga, er gætu rjtetlætt neitt hringl eða apturhvarf frá því sem rjett mátti álítast í þessu efni 1894.

Hvað hina spurninguna áhrærir, sem að vísu heyrir framtíðinni til, hvað lengi vjer eigum að halda endurskoðunarmálinu fram í sama formi og á þingunum 1885—86 og 1893—94, þá viljum vjer svara henni stutt á þá leið, að vjer álítum það *sjálfsagða skyldu* vora við föðurland vort og sjálfa oss að halda áfram hiklaust óbreyttri endurskoðaðri stjórnarskrá, þangað til útsjeð er um að sá vegur leiði til árangurs. En kæmi sá dagur, að vjer gætum sagt, að vjer hefðum haldið stjálfstjórnarkröfum vorum fram í þessari mynd svo lengi án alls hringlanda eða apturkippa, *að vjer hefðum gjört skyldu vora í augum vor sjálfra og annara þjóða*, og færi svo ólíklega að þetta ekki leiddi oss til sigurs á gjörræði og mótþróa Danastjórnar væri auðvitað ekkert annað fyrir oss að gjöra en *annaðhvort* að beygja oss undir okið og leggja árar í bát með allar frelsiskröfur gegn Dönum — sem vjer hyggjum þó að engan Íslending muni fýsa, þegar til alvörunnar kæmi — *ellegar* þá fleygja fyrir borð viðurkenningum Dana sjálfra, og byrja nýja stefnu byggða á

grundvelli sögulegra, óskertra landsrjettinda Íslands, til aðskilnaðar frá Daumörku, jafnt í hinum almennu sem í hinum sjerstöku málefnum landsins.

En þessi síðastnefndi vegur liggur að voru áliti harla langt í burtu, því það er ofur langt frá því að vjer höfum gjört skyldu vora í þeirri framsókn til sjálfforræðis, sem háð hefur verið á grundvelli stöðulaganna og þeirrar stjórnarskrár sem vjer nú höfum.

Vjer höfum æ ofan í æ. orðið fyrir barnalegum, öldungis óviturlegum breytingatilraunum á vorum eigin samþykktum hjer heima á Íslandi, sem hafa hleypt upp svo miklum flokkadráttum, og unnið svo mikið fylgi vanþekkingar og áhugaleysis, einkum á þinginu sjálfu, að stjórnarbaráttu vora hefur, þegar á allt er litið, vantað stórmikið til þess að geta verið virðingarverð í augum hinnar erlendu stjórnar. Það sem fram hefur komið í þessu máli, hefur að vísu sýnt glöggt, að vilji alls meginþorra þjóðarinnar leitar einlægt í sömu áttina, sem sje að fá sjálfstætt stjórnfrelsi um eigin málefni, en á hinn bóginn hafa bæði ýms af hinum opinberu blöðum og alþingi sjálft dregið afl og orku úr framsókn vorri með vanhugsuðu hringli og stefnuleysi, hvað eptir annað. Að svo komnu liggur því alls ekki fyrir að voru áliti að fara að rekja ástæður að því hvers vænta mætti af nýrri

stjórnarbaráttu Íslendinga á hinum eldra grundvelli á *móti* því sem valdboðin lög Dana viðurkenna. En svo mikið mun þó óhætt að segja, að ekki virðist það sjálfu sjer samkvæmt eða viturlega ráðið af þeim hinum sömu, sem nú láta hugfallast, og hörfa undan synjunartillögum stjórnarinnar í Danmörku gegn stjórnarskipunarlögum fyrir Ísland, sem þó hafa fullkomnustu heimild í skýlausum *bindandi viðurkenningum* Dana á landsrjettindum vorum og fortakslausu heityrði í hinni gildandi svonefndu stjórnarskrá sjálfri, að vísa þjóð og þingi á þá leið, sem *enga* von hefur til árangurs að svo komnu, og aldrei getur leitt til neins fyr en grundvallarlögum Dana sjálfra verður raskað, eða Íslendingum vex svo fiskur um hrygg, að þeir geti haldið uppi rjetti sínum með valdi.

Vjer höfum í fyrri ritgjörðum um þetta mál leitast við að sýna rækilega fram á það, að rjettindum vorum hefur verið haldið uppi af alþingi gegn Danastjórn allt til þessa, enda þótt ósamkomulag og stefnuleysi innan þings hafi alla tíma valdið hinu mesta tjóni, og að öllum líkindum beinlínis verið orsök til þess, að vjer ekki *nú þegar* höfum fengið alinnlenda þingbundna stjórn í vorum sjerstöku málefnum.

Alþingi hefur allt til þessa forðast að gjöra neitt það, sem innihjeldi lögmæta og bindandi viðurkenningu um gildi stöðulaga og stjórnar-

skrár fyrir oss, að því leyti sem þessi lög ríða í bága við sögulegan rjett Íslands frá elstu tímum. — Á hinn bóginn hefur þingið á hinu síðara tímabili stjórnardeilu vorrar við Dani, eða síðan 1881 jafnan á einhvern hátt sýnt, að vjer vildum nota oss fyrirvara alþingis 1873 til þess að fá stjórnarskrá þeirri breytt, er Danakonungur gaf út fyrir Ísland 1874, í þá átt sem hún sjálf gefur skýlaust fyrirheiti um. Vjer höfum ekki viðurkennt hin valdboðnu lög Dana bindandi fyrir *oss*. En vjer höfum haldið því fram, að þessi lög væru bindandi fyrir *stjórn Dana*. og vjer höfum þannig hugsunarrjett krafist þess, sem hægt er að krefjast á grundvelli þessara laga. Þetta er ofur einfalt mál, og gegnir furðu, hve erfitt ýmsir menn hjer hafa átt eða þóttst eiga með að skilja þetta, sem á sjer ótal dæmi í daglegu rjettarfari manna á milli um allan heim.

Þetta eru nú hin tvö meginatriði sem stjórnarbarátta vor hefur byggst á síðan 1881.

Hvað nánari ákvörðun rjettarkröfu vorrar snertir, þá hafa frumvörp þau, sem fram hafa komið á alþingi í þá átt að breyta stjórnarhögum vorum, að vísu verið nokkuð mismunandi, eins og kunnugt er, en þó má segja, að hin endurskoðaða stjórnarskrá, sem samþykkt var á alþingi 1893—94 innihaldi allar þær aðalákvarðanir, sem hafa verið hinn rauði þráður í allri fram-

sókn þingsins í þessu máli, enda má svo að orði kveða að hún hafi verið samþykkt næstum óbreytt af 4 alþingum á lögformlegan hátt, og hefur hún þannig unnið mest og stöðugast fylgi þjóðarinnar af öllu því, sem fram hefur komið enn í þessa átt.

Vjer höfum reynt að sýna fram á (sbr. Andvara 16. árg.) með því að rekja innihald þessa endurskoðunarfrumvarps grein fyrir grein, að það fullnægi að öllu leyti þeim kröfum, sem byggðar verði á grundvelli þeim, sem að ofan er nefndur, og látum vjer oss nægja að vísa til þess, sem þar er sagt um það, hvernig form og efni rjettarkröfu vorrar eigi og hljóti að vera.

Viljum vjer láta oss nægja hjer að lýsa yfir því, að það er sannfæring vor, að enginn af þeim mönnum, sem nú eða áður hafa andæpt á móti hiklausum og óbreyttum samþykktum alþingis í þessari endurskoðuðu stjórnarskrá muni nú eða síðar semja *aðra*, sem geti unnið meira fylgi þjóðar vorrar eða þings, og sem um leið sje líklegri til þess, að öðlast staðfestingu konungs.

Vjer leyfum oss að fullyrða þetta ekki svo mjög sökum þess, að vjer ætlum að vjer höfum um langan tíma hugsað það mál fullt eins vel og þeir er vakið hafa umræður á móti þessari endurskoðun, heldur fyrir sakir hins, að vjer höfum enn ekki í öllu þessu langa þrefi um

hinar einstöku ákvarðanir, heyrt neina rökstudda mótbáru vera gjörða móti *aðalatriðum* málsins, og ekki yfir höfuð getað sannfærst um, að neitt það væri á gildum rökum byggt, sem breytingamennirnir hafa viljað halda fram, með því það og jafnan hefur miðað að því, að brjóta niður án þess að byggja upp aptur, nje heldur höfum vjer á hinn bóginn getað sjeð, að nein önnur leið væri *fullnægjandi* fyrir Ísland til þess að fá *alinnlenda stjórn* í vorum *eigin* málefnum, en einmitt sú, sem endurskoðun þessi fer, með því að sorgleg og langvinn reynsla hlýtur að vera búin að gjöra hverjum manni þá vissu bersýnilega, að *öll* stjórnartengsli við Danmörku í hinum *sjerstaklegu* málum vorum hlytu að vera frjalsri framsókn hins íslenska þjóðernis og greiðri og gagnlegri umboðsstjórn í þeim hinum sömu málum til óhamingju og niðurdreps.

A hinn bóginn viljum vjer fúslega játa, að breyta má orðum og setningum *endalaust*, bæði til hins betra, og eins til hins lakara, en sú setning mundi engu síður gilda um hin nýju lagasmíði framtíðarinnar, sem breytingamenn án skóla reynslunnar vísa til, en um þau sem þegar eru samin. Og að breyta einmitt til þess að breyta, án þess að geta sýnt fram á neinn verulegan hagnað eða umbót, sem af því leiði, og án þess að hafa glöggt fyrir augum samhengi og niðurskipun laganna í heild sinni,

grein fyrir grein, það álítum vjer að vísu gjörandi fyrir þá, sem ekki hafa annað að gjöra en að leika sjer. En vjer hyggjum, að alþingi Íslands sje illa valinn leikvöllur fyrir slíkar trúðlistir. Eða mundi það ekki vera of alvarlegt og athugavert, að varpa fyrir fætur sjer margra ára erfiði og virðing þingsins, bæði hjá stjórn þeirri er vjer eigum í höggi við, og augum þjóðar vorrar og annara víðs vegar um heim, sem veita frelsisbaráttu vorri eptirtekt, með meiningarlausu karpi um allsendis óveruleg ákvæði og þýðingarlausar orðabreytingar, til þess að nokkur þjóðarfulltrúi geti verið sæmdur af því að taka þátt í slíku, styðja það, eða jafnvel þola það?

En því fer miður, að vjer höfum allt of mikið af slíku politisku þroskaleysi, bæði innan þings og utan, sem einblínir á smáræðin og gleymir því verulega, sem vill gjöra breytingar án þess að geta gjört sjer eða nokkrum lifandi manni grein fyrir hverju eigi að breyta, hvers vegna eigi að breyta, eða hvað muni vinnast með því, og þess vegna er það, að svo fjölskipaður flokkur af liði voru má heita að beygja sig eins og dautt herfang fyrir fætur hvers meðalhyggins manns, sem af *öðrum hvötum* vill kippa fótunum undan framsókn vorri til meira stjórnfrelsis en þess, sem vjer nú höfum. En sambandi voru við Dani, húsbændur vora og

herra, er þannig varið, að óhugsanlegt er, meðan allt stendur við þetta sama, að ekki vekist jafnan fleiri en færri upp til þess að bregða fótum fyrir Íslendinga í þessu máli, ef ekki sem augljósir mótstöðumenn, þá sem þjóðarvinir og postular sannarlegs frelsis að *nafninu* til. Vjer höfum sjeð allmörg og ekki gömul dæmi þess, að einkum hinn æðri embættismannalýður á Íslandi er svo háður vilja Danastjórnar, eins og hann birtist hjer á landi gegnum umboðsmann hennar, að þess er naumast að vænta. að þingið verði hreinsað fyrst um sinn af opinberum fylgismönnum þessarar stjórnar, hvað sem heill og hagsmunum þjóðarinnar sjálfrar líður. En einmitt alstaðar annarstaðar, þar sem líkt stendur á, er rjettlæti og sannleiksást *þjóðarinnar sjálfrar* í sínu eigin máli hin síðasta og einasta von til viðreisnar. Menn geta haft hagnað af því að vinna öðrum tjón, en menn geta aldrei haft hagnað af því að gjöra sjer sjálfum óleik og óvinabragð.

Því ,er heldur ekki að neita, að þeim mönnum fer æ fjölgandi, sem skilja að meira eða minna leyti á hverju hin svokallaða stjórnarbarátta vor frá 1881 veltur. Og því verður heldur ekki mótmælt, að víðast hvar um hinn menntaða heim mundu menn geta gjört sig ánægða með þá almenningsþekkingu í grundvallarlögum landsins, sem Íslendingar hafa nú.

En þess ber að gæta, að *þjóðviljinn* á Íslandi hefur þyngra hlutverk að vinna, en dæmi munu finnast til annarsstaðar, þó víða sje leitað. Það er eðlileg afleiðing af hinu margra alda gamla, óholla sambandi voru við Dani, af fólksfæð, strjálbyggð og fátækt Íslendinga, að æðstu stjettir þjóðarinnar eru ótryggari og hvikulli í politiskri baráttu vorri gegn Danastjórn heldur en ætla mætti, þegar einungis er litið á það, hve augljóst og einfalt mál er um að ræða, þar sem þrætan er um það, hvort fjarlæg og ókunnug stjórn sje betur fallin til þess að ráða lögum og lofum Íslendinga, heldur en innlend og kunnug stjórn.

Það verður sagt með sanni, að hjer á landi er það *þjóðin*, en ekki þingið, sem hefur haldið uppi merkjunum, að minnsta kosti síðan endurskoðunarbaráttan hófst 1881. Þegar þess er gætt, að *aðalþrætan* er ekki um fyrirkomulag á stjórninni *innanlands*. heldur um það, hvort vjer eigum að hafa erlenda, ábyrgðarlausa stjórn eða ekki, þá er það átakanlega einkennilegt, hve löggjafarþing Ísiendinga hefur verið óstöðugt í rásinni, og hve opt það hefur gefið hinni erlendu mótspyrnu og íhaldsstefnu höggstað á sjer fyrir vanhugsaðar tilbreytingar og apturkippi frá því sem þingið sjálft þó jafnharðan hefur samþykkt og gjört að prógramsmáli landsins. En það er ekki síður athugavert, hve staðfastlega megin-

þorri þjóðarinnar hefur sett fulltrúum sínum stólinn fyrir dyrnar og hrundið þeim á rjetta leið jafnóðum og hin ógæfusamlega breytingasýki og apturköst hafa komið upp á þinginu. Þetta hefur *þjóðin* gjört hingað til, þrátt fyrir alla erfiðleika, þrátt fyrir allan mótróður hjeraðsríkra þingmanna, sem hafa brugðist kjósendum sínum, en hafa orðið að halda sjer uppi á flaki hinna sigruðu breytingaflokka meðan unnt var — og þrátt fyrir allar dylgjur og fortölur stjórnarinnar, alþýðumanna, sem orðið hafa ginningarfífl þeirra og opinberra blaða, sem hafa atvinnuhagnað og jafnvel beinan peningaágóða af því að berjast á móti sjálfstjórnarmáli voru.

Öllu þessu, sem nú höfum vjer talið, og mörgu fleiru, sem telja mætti, ef tími og rúm leyfði, hlytu þjóðfulltrúarnir á alþingi 1895 að vera gagnkunnugir, svo langvinn og svo lærdæmsrík er stjórnarbarátta vor orðin, og svo margháttaðir eru þeir vafningar og vjelabrögð sem beitt hefur verið til þess að naga úr henni afl og orku!

Það virðist samt mega með rjettu teljast vorkunnarlaust, þó að minnsta kosti þeir þjóðfulltrúar á alþingi 1895, sem telja sig með alþýðumönnum eða bændalýðnum á Íslandi hefðu ekki látið leiða sig á bersýnilega glapstigu að þessu sinni, og að þeir svo hefðu veitt málstað þjóðar-

innar hið sama fylgi 1895, eins og undanfarandi alþing höfðu gjört, þó alls ekki væri tekið tillit til þess, að þeir þar að auki höfðu fengið sjerstaka hvöt frá þjóðinni til þess, að fylgja fram endurskoðunarmálinu óbreyttu, sem vjer viljum gjöra að nákvæmara umtalsefni í næsta kafla athugasemda vorra.

## III.

*Höfðu þjóðfulltrúarnir á alþingi 1895 ekki fengið sjerstakar hvatir frá þjóðarinnar hálfu til þess. að halda fram endurskoðunarmálinu óbreyttu?*

Hin staðfasta hvöt frá þjóðarinnar hálfu fyrir fulltrúa Íslands til þess að samþykkja endurskoðunina að nýju breytingarlaust 1895 lá auðvitað í kosningunum til alþingis 1894, og að vísu liggur þetta í hinum undangangandi kafla athugasemda vorra, þó eigi virtist þörf á að taka það þar sjerstaklega fram eða sem lið út af fyrir sig, af því það að sjálfsögðu heyrði til hinni pólitisku afstöðu málsins, og sambandi þjóðfulltrúanna við hana.

En með því vjer í þessum kafla viljum gjöra oss ljósan hlut *þjóðarinnar sjálfrar* í málinu gagnvart fulltrúum hennar á alþingi verðum vjer nákvæmar að athuga þetta þýðingarmikla atriði, áður en vjer svörum hinni framsettu spurningu.

Eins og lýðum er ljóst, var alþingi sagt upp með opnu brjefi 29. sept. 1893 fyrir sakir þess, að þingið það ár, svo sem í brjefinu stendur, »fjellst á frumvarp til stjórnarskipunarlaga um hin sjerstaklegu málefni Íslands, sem fer fram á breyting á stjórnarskrá 5. jan. 1874 um þessi málefni«, með tilvitnun í 61. gr. hennar[1] og voru með opnu brjefi sama dag nýjar kosningar fyrirskipaðar um land allt. Enn fremur var alþingi stefnt til aukafundar með opnu brjefi 15. des. s. á. og sama dag bar konungleg auglýsing þjóðinni þann ótvíræða boðskap með tilvitnun í hina alþekktu auglýsingu 2. nóv., að þess yrði *ekki vænst*, að frumvarpið öðlaðist staðfestingu konungs, þó það kynni að verða samþykkt af hinu nýkosna alþingi, og er *ríkis-*

1) Á þessum orðum og tilvitnunum hins opna brjefs, sjá menn enn einu sinni, hve tilhæfulaus sú mótbára er, sem gjörð hefur verið móti hinni endurskoðuðu stjórnarskrá, að hún skerði *tignarrjettindi konungs* með skipun landstjórans. Einnig sjest, að stjórnin með þeim kemst í beina *mótsögn* við það, sem hun enn ber blákalt fram í hinni konunglegu auglýsing 15. des. s. á., að hin endurskoðaða stjórnarskrá rjúfi *ríkiseininguna*, þar sem hjer er ótvíræðilega viðurkennt, að hin umrædda stjórnarskrárbreyting ekki færi út fyrir takmörk hinna *sjerstaklegu* málefna Íslands; en undir þau geta auðvitað, hvorki tignarrjettindi konungs nje ríkiseiningin heyrt. Handa Islendingum þarf ekki að vanda vöruna!

*heildin*, eða grundvallarsetningin um eining ríkisins *enn* talin, sem ástæða fyrir hinni væntanlegu staðfestingarsynjun.

Allir sjá, að hjer lá því tvennt jafn augljóslega fyrir: 1) hátíðleg og alvarleg *áskorun* til *þjóðarinnar í heild sinni* samkvæmt stjórnarskránni um það, hvort hún vildi halda eða hafna þessu frumvarpi, sem breyttum stjórnarskipunarlögum, fyrir Ísland, og þess vegna kjósa þá fulltrúa, sem tækjust á hendur að framfylgja þessum vilja hennar með eða móti frumvarpinu, og 2) *hótun* sprottin frá *Danastjórn* um það, að þó þjóðin á þenna hátt aðhylltist frumvarpið, skyldi það samt sem áður ekki ná staðfestingu konungs. Með öðrum orðum, árið 1893 lágu fyrir íslensku þjóðinni þau hin sömu kjör og afarkostir með tilliti til hinnar endurskoðuðu stjórnarskrár, sem hinir fyrri, árið 1885, að hafna árangurslaust eða þá að samþykkja drottnunarok Danastjórnar. — Hjer var þó, eins og áður, ekki um annað að ræða, en sjálfrátt samþykktar- og ályktunarvald, sem íslenska þjóðin og fulltrúar hennar höfðu sótt svo fast eptir á ráðgjafaþingunum allt tímabliið frá 1848—1874, eða 26 ár. Jafnrjettisboðskapurinn frá 23. septemb. 1848 stóð hjer í *annað* sinn letraður með skírum stöfum fyrir augum allra Íslendinga, og nú var eigi lengur aðeins um *ráðgefandi* atkvæði

þeirra að ræða heldur um fullt og fast *ályktunarvald.*

Og nú spyrjum vjer: hvernig eru nú þá *þessar* alþingiskosningar, sem að lögum ná yfir 6 ára tímabil frá 1. júlí 1894 að skilja? Þessari spurningu beinum vjer að *þjóðinni* sjálfri, og þykjumst eiga heimtingu á ótvíræðu svari, eigi aðeins sem fulltrúi einstaks kjördæmis, heldur alls landsins í máli, sem varðar það *allt* jafnt. Vjer spyrjum enn fremur: »Gat það verið meining eða vilji þjóðarinnar eða nokkurs kjördæmis hennar við þessar kosningar, að fela fulltrúum sínum, að samþykkja þessa endurskoðuðu stjórnarskrá á aukaþinginu 1894 aðeins, en falla svo frá henni þegar til hinna reglulegu þinga kæmi, með öðrum orðum, að beygja knje sín fyrir gjörræðisdrottnun Danastjórnar yfir Íslandi þegar liðugt ár væri liðið frá kosningardegi? Hver sá maður, sem vill leyfa sjer að gera þjóðinni jafn vanvirðandi getsakir, verður um leið að bera henni á brýn, að hún *ekki* hafi verið makleg þess, að eiga samþykktaratkvæði um stjórnarskipunarlög sín, er hún ekki hafi borið skynbragð á, hvað sú áskorun, rjettur og skylda þýddi samkvæmt stjórnarskránni, að hún skyldi með nýju fulltrúavali sýna, hvort hún vildi samþykkja eða fella hina endurskoðuðu stjórnarskrá alþingis 1893, sem *framtíðar*-stjórnarskipunarlög fyrir Ísland. Á hinn bóginn er

það ljóst, að þetta drægi þá einnig þann dilk eptir sjer, að staðfestingarsynjun konungs hefði þá eigi aðeins verið afsakanleg, heldur beinlínis *sjálfsögð*, þar sem samþykkt aukaþingsins ekki hefði getað skoðast öðruvisi, *en látalæti* og gjörð til málamyndar og því að engu hafandi. Eða hvað átti þjóðin að gjöra við þau stjórnarskipunarlög, sem hún jafnharðan hefði viljað annaðhvort fella eða umturna áður en nokkur reynsla var á þau komin? En vjer verðum jafnframt að lýsa yfir því, að það þurfi meira en meðal ósvífni til þess að halda slíku fram gagnvart hinum nýju kosningum þjóðarinnar 1894. Yfirgnæfandi röksemdir blasa hjer við í hverja átt sem litið er. Eigi verður fyrst og fremst annað sagt, en að íslenska *þjóðin* hafi með hálfrar aldar baráttu fyrir stjórnfrelsi sínu sýnt og sannað, að henni væri full alvara með, að halda því máli til streitu. Í öðru lagi er það á allra manna vitund, að enginn sá fulltrúi var kosinn til alþingis 1894, sem ekki gaf kjósendum sínum fyrirheiti um, að framfylgja þeirri endurskoðuðu stjórnarskrá, sem hjer ræðir um. Í þriðja lagi voru yfirleitt þeir hinir sömu fulltrúar, sem setið höfðu á alþingi 1893, endurkosnir 1894, og var ekki hægt, fyrir þjóðina að sýna með öðrum hætti bersýnilegar að hún vildi sem best tryggja sjer fullt fylgi með málinu. Og í fjórða lagi hafði þjóðin með aukakosningum þeim, sem fram höfðu

farið á kosningartímabilinu 1886—1892, og þó engu síður með hinum almenna þjóðfundi fyrir allt land á Þingvelli 1888, ótvíræðilega sýnt, að hringlandinn í endurskoðunarmálinu 1887 og 1889 var gagnstæður *hennar* vilja. —

Það er því augljósara en frá þurfi að segja, að *þjóðin* hefur með hinum *nýju kosningum 1894*, gjört hina endurskoðuðu stjórnarskrá frá 1893, að programsmáli sínu, eigi aðeins á aukaþinginu 1894, heldur eptir atvikum fyrir allt hið lögskipaða kjörtímabil, enda getur það engum vafa verið undirorpið eptir hlutarins eðli og anda stjórnarskipunarlaganna, að þessi *lögkrafða* yfirlýsing þjóðarinnar hlyti að vera siðferðislega og politiskt bindindi bæði fyrir þjóðina sjálfa og fulltrúa hennar hvað endurskoðunarmálið snertir, *þangað til* að minnsta kosti að *nýjar almennar* kosningar fara fram, því að öðrum kosti geta menn ekki sjeð hinu rjetta sambandi millum þjóðfulltrúanna og hins sanna þjóðarvilja borgið, og með þessu eina móti verður trygging fengin fyrir því. að þjóðinni eigi verði sett stjórnarskipunarlög *önnur* en þau, sem hún *sjerstaklega* þar til kvödd hefur *fyrirfram* fallist á.

Viðvíkjandi hinni framsettu spurningu viljum vjer þá ennfremur vekja athygli lesendanna að því fyrirfram, að það er mjög langt frá því, að bak við hana geti leigið, frá vorri hálfu, viðurkenning um það, að það hefði einusinni ver-

ið með felldu, að þeir hinir sömu þjóðfulltrúar, er gengu að því að halda fram endurskoðuninni frá 1893, sem politisku »programmi« þjóðarinnar við kosningarnar 1894, fjellu aptur frá henni 1895, *þó* aldrei nema einstök kjördæmi landsins hefðu gjört sig sek í þeim pólitiska barnaskap, að æskja þess eða krefjast. Þvert á móti flýtur það beinlínis af því, sem vjer nú tókum fram, að þegar stjórnarskipunarlagabreyting samkvæmt 61. gr. stjórnarskrárinnar, er lögð fyrir þjóðina eptir *þingrof*, þá er það ekki augnabliks uppþot, eða óráðið meiningahringl einstakra kjördæma, eða einstöku manna, sem þjóðin er spurð um, heldur um alvarlegan og *staðfastan* vilja hennar yfirleitt, þó þannig að *meiri hluti* þjóðarinnar, eða fulltrúa hennar hlýtur að ráða úrslitunum.

Það gefur hverjum manni að skilja, að slík úrslit hljóta að standa fastar fyrir undirtektir þjoðarinnar við nýju kosningarnar en svo að þeim verði feykt burtu með lausum meiningaþyt einstakra kjördæma *eptirá*, sem þar að auki ríður í bága við það, sem þau sjálf hafa fyrir skemmstu gjört og afráðið í samræmi við alla þjóðina og í lögskipaðri samvinnu við hana. Og gætu nú hin einstöku kjördæmi landsins ekki látið sjer skiljast jafn einfaldan sannleika og þetta er, hlyti ráð þjóðarinnar að verða á reiki og vegur hennar og viðreisnarvon á förum. Vjer gætum þá átt

von á nýjum þjóðarvilja með hverjum veðrabrigðum, og á jafnmörgum útgáfum af honum í senn eins og kjördæmi landsins eru. Með þessum hætti væri þó það málverk fengið af þjóðarviljanum á Íslandi, sem sundurgerðarmenn og talsmenn Danastjórnar hjer á landi jafnan hafa haldið á lopti, að hann væri. eins og stýrislaust skip undir seglum, sem bærist til og frá, eptir því sem vindi og veðri hagaði í hvert skipti!

En frá þessu sjónarmiði sjá menn þá og best á hinn bóginn, hve varúðarverðir og villandi fljótfærnisdómar um almenningsálitið og þjóðarviljann yfir höfuð eru, og sjer í lagi leynir það sjer ekki, hvert það stefnir, þegar sjálfir fulltrúar þjóðarinnar á löggjafarþinginu, sem umfram allt hafa þeirrar helgu skyldu að gæta, að vera talsmenn hins *sanna* þjóðarvilja, og að hefja hugsunarhátt þjóðarinnar á æðra politiskt stig, þegar þeir segjum vjer, hafa að hlífiskildi fyrir sínu eigin politiska staðfestuleysi — þó eigi væri um aðrar eða lakari hvatir að ræða — ósannar sögur og ranga dóma um það, sem þjóðin yfirleitt lætur í ljósi og krefst af alþingi, með þeim hætti að þeir sælast til að draga almennar, óröksruddar ályktanir af hverjum meiningar- og kenningarþyt, hversu langt sem hann skeikar frá þungamiðju þjóðarviljans.

Það þykir mönnum þó að líkindum ljóst,

að þjóðin megi ekki vera rjettlægri í augum fulltrúa sinna á alþingi en hver einstaklingur hennar að sínu leyti, og að hún því eigi ómótmælanlega heimtingu á því, að sannir og rjetthermdir viðburðir og yfirgnæfandi rök sjeu færð fram á skoðunarsviðið, þegar það er á seiði, að byggja afsal á hinum helgustu og þýðingarmestu rjettindum hennar — og það á bak við hana og að henni fornspurðri — á því, að hún allt í einu hafi snúið af þeirri leið, sem hún einlægt hefur haldið, og sem politiskt sjálfstæði hennar, sæmd og sjálfsvirðing er algjörlega komin undir.

Það er nú í þessa átt, að vjer eigum að meta rjett það, sem *sjerstaklega* kom frá þjóðarinnar hálfu um endurskoðunarmálið á alþingi 1895. Því miður fræða alþingistíðindin landslýðinn ekki um þær fundarályktanir, yfirlýsingar og áskoranir til alþingis, sem hjer að lúta, og gjörðust í hinum einstöku kjördæmum landsins, og í sambandi við þau á Þingvallafundinum 28. júní, rjett fyrir alþing. En einmitt vegna þess, að vjer viljum láta viðburðina sem mest tala sjálfa, svo öllum, sem vilja, gefist kostur á að fella óhlutdrægan og sjálfstæðan dóm um málið, þá leggjum vjer hjer fyrir almennings sjónir *útdrátt eptir fundargjörðunum sjálfum*, eins og þær lágu fyrir alþingi, af þessum ályktunum, yfirlýsingum og áskorunum þannig, að vjer skipum þeim í tvo aðalflokka, eins og innihald

3

þeirra gefur tilefni til. Niðurstaða fundanna í stjórnarskrármálinu er á þessa leið:

A.

1. *Suður-Múlasýsla:*

 Fundurinn skorar á þingið í sumar að halda málinu áfram alveg í sömu stefnu og á þinginu 1893 og aukaþinginu 1894.

2. *Norðurmúlasýsla:*

 Fundurinn ályktar að halda malinu áfram þegar á næsta þingi óhikað og röggsamlega í sömu stefnu og áður, árin 1893 og 1894.

3. *Norður-Þingeyjarsýsla:*

 Ályktaði fundurinn að skora a alþingi að halda máli þessu fram óbreyttu, eins og það hefur verið samþykkt á síðustu þingum.

4. *Suður-Þingeyjarsýsla:*

 Fundurinn skorar á alþingi að halda stjórnarskrármálinu hiklaust og röggsamlega áfram á þinginu 1895 á sama grundvelli sem á síðustu þingum.

5. *Eyjafjarðarsýsla:*

 Fundurinn skorar á alþingi að samþykkja óbreytt stjórnarskrárfrumvarp það, sem samþykkt var á aukaþinginu 1894.

6. *Strandasýsla:*

 Fundurinn samþykkti, að skora á alþingi að halda máli þessu fram á næsta þingi og að samþykkja óbreytt stjórnarskrár-

frumvarp það, er samþykkt var á síðasta þingi.

7. *Ísafjarðarsýsla:*

Fundurinn lýsir megnri óánægju yfir undirtektum stjórnarinnar í stjórnarskrármálinu og skorar á alþingi að fylgja því máli fram í líka stefnu eins og að undanförnu.

8. *Barðastrandarsýsla:*

Fundurinn skorar á alþingi að halda eindregið áfram þessu máli í sömu stefnu og að undanförnu.

9. *Dalasýsla:*

Fundurinn lýsir óánægju sinni yfir neitun stjórnarinnar og skorar á alþingi að samþykkja að nýju frumvarpið frá síðustu þingum óbreytt.

10. *Snæfellsnessýsla:*

Fundurinn skorar á alþingi að fylgja þessu máli fram í sömu stefnu og á þingunum 1893 og 1894.

11. *Borgarfjarðarsýsla:*

Fundurinn samþykkti að skora á þingið að samþykkja í sumar stjórnarskrárfrumvarp síðustu þinga óbreytt.

12. *Kjósar- og Gullbringusýsla:*

Samþykkt að halda stjórnarskrármálinu áfram á næsta þingi óbreyttu, eins og það var samþykkt á alþingi 1893.[1]

---

1) Á öðrum fundi í sýslunni var að vísu einnig

13. *Reykjavíkur-kaupstaður:*

Fundurinn óskar þess að þingið haldi fram stjórnarskrármálinu á næsta þingi óbreyttu í frumvarpsformi.

14. *Árnessýsla:*

Fundurinn samþykkti að skora á þingið að halda fram óbreyttu frumvarpi síðasta þings.

15. *Rangárvallasýsla:*

Fundurinn samþykkti að skora á alþingi að fylgja fram stjórnarskrárfrumvarpinu frá næstliðnum þingum.

16. **Þingvallafundurinn:**

*Fundurinn skorar á alþingi að samþykkja óbreytt stjórnarskrárfrumvarp það, sem samþykkt var á aukaþinginu 1894.*

B.

1. *Austur-Skaptafellsýsla:*

Fundurinn var einhuga á því, að málinu væri ekki hreift á næstu þingum og helst ekki fyr en einhver breyting verður á stjórnartaumunum í Danmörku.

---

samþykkt að hreifa málinu í *ávarpsformi*, en með því kjörnir fulltrúar sýslunnar hjeldu eindregið fram ofangreindri samþykkt á Þingvallafundinum, hlýtur hún að gilda sem *aðalniðurstaða* þessa kjördæmis; þar að auki kom og áskorun frá þessu kjördæmi, meðan þingið stóð, um að samþykkja endurskoðunina óbreytta.

Vjer vonum að allir sjái, að gjöra mætti ráð fyrir því með fullri vissu, að slíkur ágreiningur sem þessi, sem að eins á rót sína í vanhyggju og misskilningi, og óneitanlega líkist meira lauslegu hjali en alvarlegu máli hugsandi manna, hefði horfið og jafnað sig á sameiginlegum fundi bestu manna landsins, og það á þeim stað, Þingvelli, sem allra staða á landi voru, er best fallinn til þess, að minnu íslensku

---

*varpsformi*, en leggja þó áherslu á þá stefnu, sem *samþykkt* hefur verið á *síðustu þingum*.

Hjer er því innihald endurskoðunarinnar frá 1893—94 samþykkt, en haft á móti *frumvarpsformi*, sem er mótsögn, því það *eitt* form *getur* gjört innihald þetta *að lögum*. Formið, sem fundurinn setur aptur í staðinn *þingsályktun*, er ólögheimilað, sjá stjórnarskrána 21. gr. orðin: »eða á annan hátt, er heppilegur kann að virðast«, og afkáralegt, því *ávarpsform til konungs* var eitt mögulegt, eptir þessari sömu grein að frumvarpi frágengnu.

B. 3. Vestmanneyingar halda sama ólögmætu formi fram í sambandi við uppástungu um að ráðgjafi Íslands mæti á alþingi. Samkynja uppástungu frá alþingi, báðum deildum 1891, virti og ráðgjafi Íslands ekki svars.

B. 4. Mýramannafundurinn vill halda málinu vakandi án aukaþings. Hver skilur það?

B. 5. Fundur Húnvetninga nefnir óákveðið þingsályktun eða ávarp, eins og það sje ekki sitt hvað, hið fyrra ólögheimilað, hið síðara lögákveðið form.

B. 6. Fundur Skagfirðinga vill helst, að málið sje ekki tekið fyrir, en tæptir þó á nýrri endurskoðun. Fróðlegt væri að vita, hvernig sá fundur vildi orða frumvarpið.

þjóðina á, að viðreisnarvon hennar er gengin til grafar, ef vjer látum sundurgerðaranda slíta bræðrabönd vor, og að órjúfanleg eining þjóðarinnar. staðfesta og tryggð við sinn eigin málstað, sem er rjettlátur eptir lögum vorum og sögu, er það eina sverð og skjöldur, sem hún hefur fyrir sig að bera í þessu máli, gagnvart ofríkisfastheldni Danastjórnar.

Vjer þykjumst þannig hafa leitt ljós rök að því, að ágreiningur hinna 6 umræddu kjördæma, sem lá fyrir alþingi 1895, getur ekki komist *nálægt* því að *rjettlæta* þá þjóðfulltrúa sem börðust með hnúum og hnefum móti því að endurskoðunin frá 1893—94 yrði samþykkt að nýju á lögskipaðan hátt, og greiddu því atkvæði móti málinu, þvert ofan i yfirlýsta sjerstaka áskorun frá svo yfirgnæfandi meira hluta þjóðarinnar.

En nú viljum vjer þá víkja að því, sem þeir hinir sömu þjóðfulltrúar, svonefndir tillögumenn hjeldu fram í staðinn fyrir endurskoðunina.

## IV.

## Politisk stefna og ástæður hinna svonefndu tillögumanna á alþingi 1895.

Nú komum vjer að því efni athugasemda vorra, sem oss hefur fallið mjög þungt að þurfa að hugsa og rita um.

Það er fagnaðarefni að geta sýnt fram á það með rökum, sem hvert barnið getur sjeð að eru sönn, að hlutur *þjóðarinnar* var þó *enn* eigi orðinn svo á þessu þingi, að hún með rjettu verði hlaðin brigslum og vanvirðu í augum eptirkomandi kynslóða og hins menntaða heims fyrir það, að hún hafi falið fulltrúum sínum á alþingi að ausa moldum *vald* það, sem hún þó óneitanlega hefur öðlast til að halda fram landsrjettindum sínum og politisku sjálfstæði.

Aptur hljóta allir óvilhallir góðir Íslendingar að játa, að það er í rauninni sannarlegt hryggðarefni, hvernig eigi allfáir fulltrúar íslensku þjóðarinnar ljeku með löggjafarvald Íslendinga á alþingi 1895.

En eins og vjer höfum áður sagt, viljum vjer láta viðburðina tala sjalfa einnig um þetta efni, svo hver og einn hugsandi og skynjandi maður geti fengið sjalfstætt álit um málið.

Fyrir því tökum vjer hjer orðrjetta þingsályktunartillögu tillögumanna, eins og hún kom fram bæði í neðri deild og efri deild alþingis og eins og hún stendur prentuð í Alþingistíðindunum C-deild, (neðri deild bls. 137 20, og efri deild bls. 145 24. Hún er orðrjett svo:

*Tillaga til þingsályktnnar nm stjórnarskrármálið.*

Um leið og neðri deild alþingis lýsir yfir því, að hún heldur fast við sjálfstjórnarkröfur

Íslands, eins og þær hafa komið fram á undanförnum þingum, ályktar hún að skora á stjórnina, að taka þær til greina og sjerstaklega hlutast til um:

1. Að löggjafar- og landsstjórnarmálefni, er heyra undir hin sjerstöku mál Íslands, verði ekki eptirleiðis lögð undir atkvæði hins danska ríkisráðs, eða borin upp í því.

2. Að gjörð verði með nýjum stjórnarskipunarlögum breyting á ábyrgð hinnar æðstu stjórnar Íslands sjerstöku mála, þannig, að neðri deild alþingis geti ávallt, er ástæða þykir til. og fyrir sjerhverja stjórnarathöfn, er til þess gefur tilefni, komið fram ábyrgð beinleiðis á hendur hjer búsettum, innlendum manni, er mæti á alþingi.

3. Að stofnaður verði sjerstakur dómstóll skipaður innlendum mönnum (landsdómur), er dæmi í málum þeim, er neðri deild alþingis eða konungur lætur höfða gegn hinum æðsta stjórnanda hjer á landi.

Flutningsmenn í neðri deild: Guðl. Guðmundsson, Björn Sigfússon, Jón Jónsson, Ólafur Briem, Valtýr Guðmundsson.

Flutningsmenn í efri deild: Jón A. Hjaltalín og Jón Jakobsson.

Maður sjer þá fyrst og fremst, að allir flutningsmenn tillögunnar eru, að undanskildum hinum 5. konungkjörna þingmanni, Jóni A. Hjaltalín,

fulltrúar hinna 6 áðurnefndu kjördæma, og ennfremur sjer maður á innihaldi hennar, að hún er samin af einum manni, eða þá fleirum, sem einn maður væri, því hún er, orð fyrir orð, samhljóða í báðum deildum. Vjer viljum og vekja athygli á því, að þessi tillaga kemur fram í neðri deild alþingis þegar á 5. fundi deildarinnar 6 júlí (B-deild bls. 17) og er vísað til nefndarinnar í stjórnarskrármálinu 8. júlí (B-deild bls. 32). Aptur kemur hún fram í efri deild á 8. fundi 11. júlí (A-deild bls. 38) en er ekki *ráðið* þar *til lykta* fyr en á 17. fundi 22. júlí (A-deild bls. 144) og þó 19 dögum *áður* en málið kom frá *nefndinni* í neðri deild 31. júlí. Í þeirri deild er svo gjörður endir á því máli á 38. fundi 15. ágúst (B-deild bls. 1388) eða 9 dögum *eptir* að hin endurskoðaða stjórnarskrá var *samþykkt*, sem var á 30. fundi deildarinnar (5. ágúst B-deild bls. 812). Þessi kynja krabbagangur á málinu er þegar í sjálfu sjer ærið eptirtektarverður, því vjer ætlum að hann eigi sjer engan líka, þó leitað sje í allri sögu alþingis, og þegar nú ennfremur þess er gætt, hve *samvöldum* ástæðum formælendur tillögunnar beittu (í báðum deildum) á einn bóginn til að merja hana gegn um þingið, og á hinn til að hnekkja framgangi hinnar endurskoðuðu stjórnarskrár, þá virðist oss einsætt, að rjettast sje, bæði sökum yfirlitsins og til að forðast

endurtekningar að tala um ástæður og stefnu tillögumanna í báðum í deildum *í einu lagi*. Hvorttveggja er sýnilega af jöfnu tagi, og stendur því eða fellur samhliða.

Nefndarálit meiri hluta nefndarinnar í neðri deild um málið nær að þessu leiti til beggja deildanna jafnt, og með því að það er fjarri voru skapi að vilja skjóta í skugga neinu því, er mætti verða tillögunni til málsbóta, tilfærum vjer það hjer orðrjett þannig hljóðandi (C-deild 215, bls. 274—277):

215. Nefndarálit
um stjórnarskipunarmálið. (Meiri hlutinn).

Vjer undirritaðir, er hin háttvirta neðri deild hefur kosið í nefnd til að íhuga og gjöra tillögur um stjórnarskipunarmalið, höfum haft til meðferðar:

1. Frumvarp til stjórnarskipunarlaga um hin sjerstaklegu malefni Íslands. Frumv. þetta er orðrjett samhljóða frumvarpi, er samþykkt var á þinginu 1893 og 1894,
2. Tillögu til þingsályktunar um stjórnarskrármálið.

Vjer höfum rækilega og ýtarlega athugað mál þetta á nefndarfundum og leitað glöggra yfirlýsinga frá hálfu þingmanna um ýms atriði málsins, og leyfum vjer oss að láta hjer uppi eptirgreint álit vort.

Vjer erum að vísu á eitt sáttir um það, að ágreiningur sá, sem nú á sjer stað í þessu máli, snerti eigi aðalefni málsins, eða þær kröfur, er halda eigi fram af hálfu þings eða þjóðar um sjálfsforræði eins og að undanförnu, heldur er ágreiningurinn að eins um það, að 6 menn úr nefndinni álíta heppilegra og vænlegra til árangurs að samþykkja tillöguna í öllu falli eins og málið nú horfir við á þinginu, en 1 úr nefndinni vill heldur að frumvarpið sje samþykkt.

Vjer, meiri hlutinn, sem eigi getum lagt það til, að frumvarpið verði að þessu sinni samþykkt, og afgreitt frá deildinni, en þar á móti viljum ráða deildinni til að samþykkja hina fyrirliggjandi tillögu til þingsályktunar, leyfum oss að færa til þær ástæður fyrir tillögum vorum, er nú skal greina.

Á þingmálafundum, sem haldnir voru í kjördæmum landsins litlu fyrir þing hafa yfirlýsingar manna farið í nokkuð ólíkar stefnur í þessu máli, þar sem 6 kjördæmi landsins hafa mælt eindregið móti því að þetta frumvarp væri afgreitt í lagaformi frá þinginu, 7 kjördæmi hafa í nokkuð óákveðnum orðum óskað þess að málinu væri framhaldið á sama grundvelli og í sömu stefnu og áður, en 8 kjördæmi hafa bundið yfirlýsingu sína við, að halda fram þessu frumvarpi óbreyttu. Jafnframt hafa einstök kjördæmi látið þá ósk í ljósi, að frumvarpinu væri breytt, eða það tekið til gagngjörðrar endurskoðunar.

Það er því augljóst, að síðan mál þetta var síðast til meðferðar á alþingi, hafa vaknað hjá þjóðinni allmargar raddir, er eigi telja það hyggilegt nje heppilegt að halda að svo stöddu lengra fram á þenna veg, eða að einskorða sig við að þreyta þessa aðferð til hins ýtrasta. Sje þessu eigi gaumur gefinn í tíma, óttumst vjer að af því geti leitt óeðlilegan og of mikinn apturkipp hjá þjóðinni í þessu máli. Menn gjöra sjer ekki neina von um að frumvarpið fái staðfesting, nje neina von um árangur af að samþykkja það nú. Þess vegna láta menn sjer vaxa í augum kostnað þann er þessu er samfara, við þingrof, kosningastríð innbyrðis hjá þjóðinni og aukaþinghald, og er það í raun rjettri eðlilegt þegar eigi er von um neinn árangur af slíku.

Vjer álítum þetta eigi vott um það, að menn vilji að efni til víkja frá þeim kröfum um sjálfsforræði, er þjóðin hefur ætíð haldið fram, en þessar raddir, er vaknað hafa gegn því, að halda áfram þing af þingi að samþykkja þannig lagað frumvarp, eru augljós vottur þess, að þjóðin er að hallast að þeirri skoðun, að þessi aðferð sje eigi heppileg, eigi hyggileg nje til verklegs árangurs. Vjer álítum einnig að það sje eigi rjett, að binda sig einskorðað við þetta frumvarp eða þessa aðferð, þar sem hjer liggur fyrir önnur aðferð, sem að voru áliti er bæði heppilegri eins

og nú horfir við, hyggilegri í politisku tilliti, og mikið líklegri til árangurs.

Oss dylst það eigi, að mjög sterkar ástæður mæla með því, að taka nú þegar fyllsta tillit til þess, er þannig er framkomið, til þess að fyrirbyggja þann óeðlilega apturkipp í þessu máli er hætt kann að vera við þegar lengra sækir fram, þann, að menn láti bitna á málinu sjálfu og aðalefni þess þá óánægju, sem hefur lýst sjer gegn þessari aðferð.

Vjer verðum því eindregið að láta í ljósi þá sannfæring vora, að það sje fyrir bestu bæði þjóðinni og þessu mikilsvarðandi áhugamáli hennar, að deildin afgreiði það eigi frá sjer að þessu sinni í frumvarpsformi, en snúi sjer heldur að tillögu þeirri er fyrir liggur. Bæði er sú aðferð, eins og þegar er tekið fram, líklegri til að vinna málinu gagn, og þótt svo færi, að þessi tilraun yrði árangurslaus, eins og fyrirsjáanlegt er um frumvarpið, þá leiðir þar af að eins það, að þjóðin stendur þá enn betur að vígi í baráttu sinni fyrir þessu máli á eptir, án þess að hafa sleppt einu einasta atriði af kröfum sínum um sjálfsforræði.

Ennfremur vill meiri hluti nefndarinnar leggja mikla áherslu á það, að hin háttvirta efri deild þegar hefur samþykkt þingsályktun um þetta mál, sem er nær því orðrjett samhljóða tillögu þeirri, er hjer liggur fyrir, og þannig fyrir sitt leyti ráðið

þessu máli til lykta á þessu þingi. Af þessu leiðir, að vjer getum alls engar líkur talið til þess, að frumvarpið geti náð samþykki þeirrar deildar, en þar sem útsjeð virðist þannig um það, að frumvarpið að þessu sinni nái samþykki þingsins í heild sinni, þá getum vjer eigi sjeð neina ástæðu sem mæli með því, að hin háttvirta neðri deild láti það ganga fram. Af þessu leiðir einnig það, að hin háttvirta neðri deild getur nú, með atkvæði sínu, ef hún samþykkir þingsályktunartillöguna, fengið því framgengt, að kröfur þjóðarinnar um sjálfsforræði komi nú aptur einhljóða frá þinginu í heild sinni, bæði þjóðkjörnum mönnum og og þeim þingmönnum, er stjórnin sjálf hefur kosið.

Þetta verðum vjer að telja sjerlega þýðingarmikið atriði, þar sem þetta hlýtur að vera stjórninni vottur um, að mótspyrna hennar gegn sjálfsforræði voru á engan stað, og hún mun eigi geta sjeð sjer fært að hnekkja kröfum vorum, þegar hún sjer að hún getur ekki fengið neina þingmenn úr þeim flokki, er hún sjálf hefur kosið til þess að fylgja skoðun sinni í þessu máli framvegis. Það mundi því vera gjörsamlega gagnstætt allri politiskri venju, ef stjórnin virti þannig lagaða yfirlýsingu löggjafarþingsins að vettugi.

Um innihald hins fyrirliggjandi frumvarps finnum vjer eigi ástæðu til að fara fleirum orðum,

eins og málið nú liggur fyrir og með tilliti til þess er hjer er tekið fram að ofan.

Að því er þingsályktunina snertir, þá skulum vjer taka fram, að í henni eru innifalin undirstöðuatriðin úr kröfum þjóðarinnar um sjálfsforræði, eins og þessar kröfur hafa komið fram í baráttu undanfarinna ára. Frumvörp þau er í þessu efni hafa verið samþykkt, sumpart til fullnaðar, hafa verið hver öðrum frábrugðin í ýmsar stefnur, en aðalkjarni þeirra hefur verið og er sá, að stjórn ríkisins, ríkissáðið, hefði ekki atkvæði um okkar sjerstöku mál, að ráðherrastjórn okkar sjerstöku mála bæri ábyrgð beinlínis fyrir alþingi í öllum stjórnarathöfnum, væri hjer búsett og mætti á alþingi og að sjerstakur landsdómur verði skipaður. Um fyrirkomulag æðstu stjórnarinnar hjer, tölu ráðherranna, skipun landsdóms o. fl., hafa komið fram mjög skiptar skoðanir, en um það hefur eigi verið og er eigi ágreiningur, að hitt sem að ofan er talið, sjeu aðalatriðin. Þær kröfur verða að fást uppfylltar, ef þjóðin á að geta sjálf ráðið sínum málum. Og fáist þessar kröfur uppfylltar, þá hefur þjóðin fengið frjáls og óháð völd til að skipa málum sínum á hvern þann hátt, er henni virðist best. Í þessum atriðum felst því hin sanna mynd málsins, eins og hún hefur vakað fyrir þjóðinni og þingsályktunin grípur þannig í fám orðum yfir þær kröfur er hafa haldið sjer óbreyttar

hjá þjóðinni og nauðsynlegar eru til sjálfræðis.

Samkvæmt þessu getum vjer, eins og þegar er tekið fram, eigi ráðið til að samþykkja hið fyrirliggjandi frumvarp, en ráðum deildinni til að samþykkja tilögu þá til þingsályktunar, er upp hefur verið borin.

Neðri deild alþingis 29. júlí 1895.

| | | |
|---|---|---|
| Jón Jensson<br>formaður. | Guðl. Guðmundsson<br>skrifari og framsögum. | Jón Jónsson<br>þm. A.-Sk. |

Jens Pálsson. Ól. Briem. Valtýr Guðmundsson.

Vjer viljum geta þess, að vjer munum einnig orðrjett tilfæra álit minni hlutans, þingmanns Suður-Þingeyinga, í næsta kafla í sambandi við nokkrar athugasemdir við hina endurskoðuðu stjórnarskrá; þar á það heima, svo lesendurnir fái yfirlit yfir málið sem fyrirhafnarminnst. Er eigi að síður innan handar að sjá, að minni hlutinn hefur rjett og samviskusamlega í stuttu og glöggu máli skýrt frá hinni politisku afstöðu málsins og stefnu þingmálafundagjörðanna, sem meiri hlutinn setur fram á svo villandi og afvegaleiðandi hátt stefnu sinni í hag, að menn fá, nema nákvæmum varhuga sje við goldið, alveg ranga og öfuga hugmynd um hlut alls meginþorra þjóðarinnar í málinu!

Nú er vjer höfum fyrir oss þetta meiri hluta nefndarálit tillögumanna í sambandi við tillöguna

sjálfa, sem allar staðhæfingar — um röksemdaleiðslur af þeirra hálfu er eigi að ræða — í þingræðunum í báðum deildum snúast um, þá viljum vjer í stuttu máli taka fram og skýra nokkur atriði sem sýna það ótvíræðlega, að tillaga þessi er allt annað en það, sem hinu löggefandi alþingi bar skylda til að gjöra í stjórnarskipunarmáli landsins samkvæmt lögákveðnu hlutverki sínu og skýlausum kröfum alls meginþorra þjóðarinnar, sem vjer þegar höfum gjört grein fyrir.

Fyrirfram viljum vjer þó geta þess, að það gegnir mestu furðu, sem bæði hefur mátt lesa í sumum blöðum landsins, og einnig er haldið fram með svo miklum digurmælum af framsögumanni meiri hlutans í neðri deild, Guðlaugi Guðmundssyni, og þá eigi síður af öðrum þingm. Skagfirðinga í efri deild, Jóni Jakobssyni, að þessi tillaga sje ný uppfundning, ný praktisk hjálpræðisstefna í sjálfstjórnarharáttu Íslunds, sem að sjálfsögða hljóti að veita henni nýtt fjör og líf, afl og orku.

Menn þurfa sem sje ekki annað en slá upp alþingistíðindunum 1889, C-deild, þingskjal 504, bls. 571—574, og þá sjest svart á hvítu, að þetta praktiska nýmæli, sem á að vera, er ekki annað en auðvirðilegur *uppvakningur* frá miðlunarnefndinni sælu það ár í neðri deild, sbr. Viðaukarit við Andvara XVI., bls. 81—91. En því nefnum vjer hann auðvirðilegan, að hverjum þeim, sem

nokkuð veit um hvað gjörst hefur í stjórnarskrármálinu, mundi hafa risið hugur við þeirri dirfsku, að vekja þann draug upp aptur, sem kveðinn hefur verið niður af alþjóð Íslands og alþingi, jafn rækilega og hann var á árunum 1891—1894.

En þá er nú að líta nákvæmar á hvað þessi uppvakningur hefur meðferðis.

1. Hyrningarsteininn fyrir tillögunni býr meiri hlutinn til upp í höndurnar á sjer með þeirri lýsingu sinni og staðhæfingu í byrjun nefndarálitsins, að enginn almennur þjóðarvilji sje til í þessu máli á Íslandi. Leikur hann þenna búhnykk með því, að skipta niðurstöðu hjeraðsfundanna í 3 flokka og ganga fram hjá Þingvallafundinum 28. júní, eins og hann hefði ekki verið til, eða á nokkurn hátt til greina takandi til að sýna vilja og kröfur þeirra kjördæma, sem fundinn ljetu sækja, einmitt til þess, að þingið eigi gæti verið í vafa um vilja þjóðarinnar í málinu.

Um þessa dirfsku meiri hlutans þykjumst vjer ekki þurfa að fjölyrða frekar á þessum stað. Vjer höfum tilgreint niðurstöðu hjeraðsfundanna og Þingvallafundarins hjer að framan, einmitt í því skyni að sjón væri sögu ríkari fyrir hvern einn, sem les og skilur mælt mál, og hirðum vjer eigi að dylja þá föstu sannfæring vora, að þeir muni vera sárfáir menn á þessu landi, sem ekki blöskrar önnur eins aðferð og sú sem hjer

er beitt til þess að byggja á henni minnkunardóm um þjóðina, um skör fram.

Að öðru leyti skjótum vjer því óhikað undir dóm almennings í öllum þeim kjördæmum landsins, sem sýndu jafn lofsverðan sem þýðingarmikinn *þjóðáráhuga* á því að sækja Þingvallafundinn 28. júní f. á., hvers virði slíkar staðhæfingar eru frá hálfu fulltrúa þeirra á alþingi gagnvart þeirri helgu og skilyrðislausu skyldu þeirra að halda fram og verja sæmdarhlut þjóðarinnar í hvívetna og einkum og sjer í lagi í stjórnarskrármálinu, sem allur vegur hennar, rjettindi og framtíð veltur á, því auðsætt hlýtur það að vera hverjum heilvita manni, að svo framarlega sem það væri *sannmæli*, að þjóðin hafi enn 1895 verið tvíbent og hálfvolg í því, hvers hún vildi krefjast af löggjafarþingi sínu í stjórnarskrármálinu, þá væri um leið horfinn rjettur hennar og þörf í sönnum skilningi til þess að öðlast þá sjálfstjórn í hennar eigin málum, sem hún þó óneitanlega hefur barist fyrir í hálfa öld, og sem hún ári áður hafði fortakslaust falið öllum fulltrúum sínum að framfylgja á sama hátt og að undanförnu með nýrri og ítrekaðri samþykkt hinnar endurskoðuðu stjórnarskrár.

2. Og hver er þá líka afleiðingin af því hjá meiri hluta nefndarinnar, að hann, eins og nú var sagt, byggir á þeim *augljósu ósannindum*, að engan *almennan þjóðarvilja* hafi verið að finna í yfirlýsingum og áskorunum þjóðarinnar til

alþingis 1895? Svarið blasir við. Eplið fellur ekki langt frá eikinni. Afleiðingin er samboðin ástæðunni. Tillögumenn ráða alþinginu til, að leggja niður samþykktarvald og frumkvæðisrjett sinn í málinn. En þetta var ótvíræð og fortakslaus *þrotayfirlýsing* frá hálfu hins *löggefandi* alþingis. Beri maður þetta saman við kröfu þá, sem þjóðin á Íslandi og hið *ráðgefandi* alþingi jafnan hjelt svo fast fram með skýlausum og skýrum orðum á öllu árabilinu frá þjóðfundinum 1841 til 1873, eða fulla tvo tugi ára, samkvæmt vafalausum landsrjettindum Íslands og konunglegu fyrirheiti 23. sept. 1848, kosningarlögunum til þjóðfundarins m. m., að *stjórnarskipunarmáli voru skyldi ráðið til lykta á þjóðþingi á Íslandi með löggefandi valdi*, — þá má það vera meira en í meðallagi torgreindur maður, sem eigi sjer hvert það stefnir, að ráða alþingi til þess að gefast upp, leggja árar í bát og taka aptur á sig gerfi *ráðgjafaþings*, einmitt í þessu sama máli, eptir að það er búið að bera nafnið löggjafarþing um aðra tvo tugi ára, og hefur allan þann tíma haft fyrir sjer fortakslausa heimild í 61. gr. hinnar gildandi stjórnarskrár til þess, að semja og samþykkja þau stjórnarskipunarlög um hin sjerstaklegu málefni landsins, sem samsvaraði þörfum og vilja þjóðarinnar.

Þó maður nú gjöri ráð fyrir, að þetta tillöguatriði hafi ekki verið af öðrum vítaverðum rótum

runnið, heldur en misskilningi hlutaðeigenda, þá verður því engu fremur fyrir það nein eiginleg bót mæld í sjálfu sjer. Tillögumenn hlutu þó að vita, að löggjafarvald þingsins inniheldur eptir eðli sínu engu fremur *rjett* en *skyldu* til að gjöra lögformlegar ályktanir um þau löggjafarmálefni sem fyrir þau eru lögð, og undir verkahring þess heyra, svo þó eigi hefði verið um það hirt, að þingið gerði sjer vansa með því, að neyta ekki *rjettar* síns, þá var þó samt sem áður tillögumönnum óskylt, að ráða því til að breyta á móti *skyldunni*.

3. Alveg þessu samboðið er nú einnig það *form*, sem tillögumenn bjóða hinu *löggefandi* alþingi. Um það atriði hefur þó stjórnarskráin sett einskorðað lögmál, sem fortakslaust er bindandi fyrir þingið.

Til þess að gjöra sjer þetta skiljanlegt þarf eigi annað en líta á þau ákvæði stjórnarskrárinnar, sem að þessu lúta.

I 21. gr. 1. málsgr. segir svo: »*hver þingdeildin um sig* á rjett á að *stinga upp á lagaboðum og samþykkja þau fyrir sitt leyti*«, og þessu samkvæmt er einnig ákvæðið í 61. gr., ef um *uppástungu,* hvort heldur til breytingar eða viðauka við stjórnarskrána er að ræða, sbr, 28. gr. um hið sameinaða alþingi. Á hinn bóginn stendur í 9. gr.: »*Konungur* getur *látið leggja fyrir alþingi uppástungu til laga og ályktana*«, og í 10.

gr.: »Samþykki *konungs* þarf til þess að nokkur ályktún alþingis geti fengið lagagildi«. Sjerhver heilvita maður ætti nú að sjá í þessum greinum, að rjetturinn til að stinga upp á lagaboðum (frumkvæðisrjetturinn, Initiativet), er *fortakslaust* á einn veg hjá *alþingi*, og á hinn bóginn hjá *konunginum*, en *alls ekki* hjá stjórn hans eða ráðaneyti, enda eru þessar greinar ekki annað en sjálfsagðar afleiðslusetningar af því meginlögmali í 1. gr, stjórnarskrárinnar: að löggjafarvaldið sje hjá konungi og alþingi í sameiningu. Þetta getur hvert barnið skilið.

Það er því jafn áþreifanlegur politiskur fábjánaskapur, að ímynda sjer, að alþingi hafi heimild til að hreifa uppástungum um breytingar eða viðauka á stjórnarskipunarlögum Íslands gagnvart *öðrum* málsaðila en konungi, eins og að konungurinn gæti það gagnvart öðrum málsaðila en alþingi. Báðir þessir málsaðilar hafa að því leyti alveg sama rjett og sömu skyldu. En eins og tillagan sýnir sjálf og öll meðferð hennar á þinginu, lögðu höfundar hennar hið mesta kapp á, að þingið hafnaði *þessum* lögmætu afskiptum af málinu, þrátt fyrir skýlausa áskorun 15 kjördæma landsins.

b. Og þá segir enn svo í 2. málsgr. 21. gr.: »Einnig má *hver þingdeildin um sig* senda *konungi* ávarp.

Hjer kemur það enn fram, að það er *kon-*

*ungurinn* sem stendur gagnvart hinu löggefandi alþingi, sem málsaðili einnig hvað ávarp snertir, en *ekki* stjórn hans eða ráðaneyti. Menn skyldu nú og ætla, að það væri lítil freisting fyrir alþingið til þess að víkja út af þessari leið, meðan þeirri stjórnskipunarlegu óhæfu vindur fram, að engin *sjerstök* stjórn er skipuð fyrir sjermál Íslands, sem alþingið geti vænst af aðstoðar í undirbúningi löggjafarmálanna og ábyrgðar af gjörðum þess. Því meðan taflið stendur svo, er það meðal annars auðsætt, að sjerhver *beinlínis málaleitan* frá *alþingis* hálfu í þá átt sem hjerræðir um til hinnar factiskt sameiginlegu stjórnar Danmerkur og Íslands (ɔ: Danastjórnar) felur í sjer *óbeinlínis afsal* eða uppgjöf á *lögleiddum sjálfstjórnarrjettindum Íslands*.

En þrátt fyrir þetta fræða alþingistíðindin B-deild bls. 1850 oss ótvírætt um það, hvílíkt ofurkapp forvígismenn tillögunnur lögðu á það, að málið ekki kæmist *lögskipaða* ávarpsleið til konungs, en þeir þingm. Vestmannaeyja, þingm. Vestur-Skaptfellinga og þingm. Reykvíkinga, allt konunglegir embættismenn, gengu af fundi þeim, sem samþykkti ávarpið til konungs. Naumast er þó ætlandi, að slíkir menn, af fákænsku sinni, hafi leitast við að bregða fótum fyrir lögmæta gjörð þingsins? En mundi mönnum þó eigi verða leit úr sennilegum hvötum og ástæðum í þessu efni? Ætlum vjer hverjum einum skyn-

sömum manni að dæma um það mál eptir líkum og ástæðum.

4. Sú leið, sem tillögumenn kusu, og hjeldu svona fast fram var sú, að *skora á stjórnina* að semja lög um þau atriði, sem tillagan sýnir.

Um þessa leið (form) er þess þá fyrst að geta, að hún eins og nú var sagt, hefur enga heimild í stjórnarskránni, og er því brot gegn ákvæðum hennar og grundvallarsetningum. En svo kemur fram önnur spurning, sem engu minna er um vert, og er hún sú, hvað hjer ge.. verið meint með orðinu *stjórn*, eða með öðrum orðum *hver* sá *málsaðili* sje, sem þingið þannig eigi að snúa sjer til? Að gjöra sjer þetta ljóst, er eitt helsta atriðið í öllu þessu máli.

Það er þá *fyrst og fremst* ljóst, að hvorki orðin »*skora á*« nje heldur orðið »*stjórn*« getur náð til *konungsins eins,* heldur hljóta þau aðeins að innibinda stjórn hans eða ráðaneyti. Þetta flýtur þegar af því sem áður er sagt um hið lögskipaða ávarpsform til *konungsins,* eptir 21. gr. stjórnarskrárinnar, en allir vita að orðið *stjórn,* á dönsku máli *Regering*, er í þessu sambandi *gagnstæðisorð* við *konunginn sjálfan,* sem meðal annars kemur svo berlega fram í ákvæðunum um ábyrgð á stjórnarathöfnuuum um ærumeiðngar o. s. frv. Annars virðist svo, sem eigi þurfi sjerstakar sönnur fyrir því, að ekki muni hlýða, að alþingið

snúi máli sínu til konungsins á svo ókurteislegan hátt.[1]

En þegar það nú þannig er orðið víst og vafalaust, að orðið stjórn í tillögunni hlýtur að takmarkast við eða þýða það sama sem ráða-

---

1) Ummæli framsögumanns meiri hlutans, þingmanns Vestur-Skaptfellinga um þetta atriði, er mjög eptirtektarvert. og ljóst og áþreifanlegt sýnishorn af röksemdafærslu hans yfir höfuð. B-deild bls. 1480 segir hann: »*Vjer eigum hjer að eins orðastað við H. H. konunginn sem juridiska persónu (sic!) með ráðgjafa Íslands sjer við hönd*«. En á sömu bls í 3. málsgrein segir hann: »Jeg tek það enn fram, ***konungurinn stendur fyrir utan þessa þrætu,*** við eigum *engan orðastað* við *H. H.*«, og enn þá á bls- 1521: »að ***konungurinn*** komi oss ***ekkert við*** í þessu máli«. Nú spyrjum vjer: Hvort á meira að marka þingmanninn þegar hann segir »já«, eða þegar hann segir »nei« við *sama* hlut? Vjer svörum: Hvorugt verður markað. En þessi mótsagnadæla gengur þó sem rauður þráður gegn um allar ræður hans í málinu, einnig hvað önnur atriði snertir. Og enda þótt landshöfðinginn vildi hjálpa framsögumanni, víðvíkjandi því atriði sem hjer ræðir um, með lauslegri tilvísun til ***óákveðinnar, daglegrar málvillu,*** þá gat það verið vel fallið til þess að strá sandi í augu ólögfróðra og auðtrúa þingmanna, en svo ekki meir. Já, hefði þeim herrum, landshöfðingja og framsögumanni verið ***alvara*** með að orðið »*stjórn*« í tillögunni merkti: ***konung og ráðgjafa Íslands,*** þá hefði mátt ætla að þeir hefðu komið með breytingaratkvæði, sem sýndi þessa utlegging svarta á hvítu, úr því henni var röksamlega mótmælt?

neyti konungsins, þá er enn sú spurning eptir, *hvaða* ráðaneyti konungs þetta sje, sem tillagan *hlýtur* að meina?

Hefði því nú verið að skipta, að Ísland hefði haft stjórn eða ráðaneyti *út af fyrir sig,* eða slíkt ráðaneyti, sem það að vísu á *skýlausa heimtingu* á eptir 1. gr. stjórnarskrárinnar, þá hefði það auðvitað verið það ráðaneyti eitt, sem tillagan gat meint, og hana þá verið þannig að skilja, að þingið hefði átt að snúa sjer með áskorun til *ráðgjafastjórnar Íslands* um ný stjórnarskipunarlög í staðinn fyrir til *konungs með ávarpi,* og þó þetta væri röng og heimildarlaus leið gagnvart 2. málsgr. í 21. gr. o. s. frv. er vjer áður nefndum, þá hefði það þó í sjálfu sjer verið skiljanlegt, hvað meint var. En nú er, eins og lýðum er ljóst, því eigi að fagna, að Ísland sje enn búið að fá slíka stjórn, heldur er það í stjórnskipunarlegum (constitutionel) skilningi, þeim er viðgengst um allan hinn menntaða heim, *stjórnarlaust* land, er það lýtur ábyrgðarlausri stjórn annars lands (Danmerkur). Þetta liggur í augum uppi. Því þó dómsmálaráðgjafi Danmerkur sje í orði kveðnu látinn *heita* ráðgjafi Íslands meðfram, þá er þetta í raun og veru tyllinafn eitt, eins og vjer svo opt höfum tekið fram, er hann hefur engin völd til þess *sem Íslands ráðgjafi,* eptir neinum lögum, hvorki grundvallarlögum Dana nje stjórnarskrá Íslands, að

úrskurða um neitt löggjafarmál þess, heldur að eins sem dómsmálaráðgjafi Danmerkur í stjórn og ríkisráði Dana, enda þótt öll sjermál Íslands sjeu þeirri stjórn og ríkisráði bæði eptir stöðulögunum 2. jan. 1871 og stjórnarskrá Íslands 1. gr. alveg óviðkomandi. Vjer ætlum því að engum fullorðnum manni sje ofvaxið að láta sjer skiljast það, að það hefði verið barnaskapur einn, sem síst ætti að vera ætlandi alþingi, og líkast því, að fara í geitarhús að leita sjer ullar, að skora á *slíkan* ráðgjafa Íslands með von um árangur, að hlutast til um þau atriði, sem tekin eru fram í tillögunni.[1]

---

1) Þetta hafði og þegar árið 1891 sýnt sig árangurlaust, er báðar deildir þingsins, og það með tilstyrk hinna konungkjörnu, sendu ráðgjafa Íslands áskorun um aðskilnað sjermála þess frá stjórnarráði Dana, þar sem þingið hefur *ekki* einu sinni verið *virt svars* um það mál. Þegar því framsögumaður meiri hlutans, sbr. B deild, bls. 1514 og víðar, fer að slá því fram til sönnunar því að »*stjórn*« í tillögunni þýði að eins ráðgjafa Íslands, en ekki stjórnarráð Dana, að með stjórnarskránni 5. jan. 1874 sje *skipuð lögbundin konungsstjórn í öllum Íslands sjerstöku málum,* þá er þetta svo *rangt* og *villandi* sem mest má verða, því til *þess* útheimtist að skipuð hefði orðið *sjálfstæð stjórn út af fyrir sig* í öllum þessum málum. En svo lengi sem það er ekki, eru þau bundin á klafa hinnar *lögbundnu konungsstjórnar Danmerkur.* Annað mál er það, að *fyrirheitið* um þetta í 1. gr. stjórnarskrárinnar er svo skýlaust og bindandi, að Island hlyti að geta komið

Niðurstaðan verður því sú, að eigi er unnt með nokkrum skynsamlegum ástæðum að neita því að orðið »*stjórn*« í tillögunni *hljóti* að þýða stjórn og ríkisráð Dana, þá einu stjórn sem konungur Danmerkur og Íslands hefur sjer við hönd, auðvitað að meðtöldum dómsmálaráðgjafa Danmerkur með auknafninu ráðgjafi Íslands, — þá hina sömu stjórn sem hefur látið greipar sópa um löggjafar- og landsstjórnarmálefni Íslands sjerstöku mála í fulla tvo tugi ára síðan stjórnarskráin 5. jan. 1874 kom út.

Nú er það þá *Danastjórn*, sem tillögumenn vilja að skorað sje á að hlutast til um, að Ísland fái endurbætt stjórnarskipunarlög þannig, að sjermál Íslands sjeu aðskilin frá ríkisráði Dana o. s. frv. eins og tillagan tekur fram.

Mundi nú nokkrum skynberandi manni geta dulist það, að þessi tillaga beri vott um ótvíræða viðurkenningu frá hálfu höfunda hennar og formælenda, að *Danastjórn* sje rjettur aðili þessa máls gagnvart alþingi? Eða hvern hugsanlegan tilgang gat það haft, að þingið sneri sjer til þessa stjórnarvalds, nema því að eins að það að rjettum lögum hefði frumkvæðisrjett og ályktunarvald í máli? En hvaðan kemur þá Danastjórn slíkur rjettur eða yfir höfuð rjettur til af-

---

fullnægingargjörð þess fram, ef alþingi hefði drengskap, festu og samhald til að reka þess rjettar fóstur jarðarinnar án þess að skeika út af rjettri leið.

skipta um sjermál Íslands þvert ofan í stöðulögin 2. jan. 1871 og stjórnarskrána 5. jan. 1874? Eða hvaðan rekja tillögumenn heimild sína til þess að snúa sjer til *Danastjórnar* um sjermál Íslands? Það er engum blöðum að fletta um það, að hjer rekur hvert glapræðið og hver lögleysan aðra í hverja átt sem litið er. Og annað er jafn víst, og það er það, að tillaga þessi stefnir að því, að hrinda endurskoðunarmálinu út á *ranga* leið, og að ofurselja, enda þótt á óbeinlínis hátt, viðurkennd og lögleidd sjálfstjórnarrjettindi Íslands gjörræðisúrslitum Danastjórnar, þar sem hún að lögum ekkert atkvæði hefur um það mál yfir höfuð, eða hin einstöku atriði þess.

Að öðru leyti skal þess getið, að breytingar þær, sem neðri deild alþingis gjörði í þessari tillögu, sjer í lagi í þá átt, að fyrirhugað frumvarp yrði lagt fyrir alþingið, ráða engan veginn bót á *þessari* hættulegu stefnu hennar, heldur slá þær að eins varnagla við því, að eigi yrðu í annað sinn gefin út *valdboðin* stjórnarskipunarlög fyrir Ísland, sem ekkert í tillögunni sýndi, að eigi gæti verið meining hennar eins og hún er orðuð í öndverðu[1] (sbr. C-deild 365, bls. 414).

---

1) Það virðist alls eigi þörf, að fjölyrða um þann fjölda af yfirdrepsástæðum, hverja út af fyrir sig, sem tillögumenn beittu til að gylla með málstað sinn svo sem *samheldi* hinna þjóðkjörnu og konungkjörnu þingmanna og deildanna innbyrðis í því máli, *að* tillagan

## V.

# Hin endurskoðaða stjórnarskrá.

### Í neðri deild alþingis.

Vjer vonum, að allir geti ráðið af því, sem vjer höfum sagt í næsta kafla á undan, að alþingið á ekki völ á neinni annari *beinni* leið til þess að halda uppi og knýja fram sjálfstjórnarkröfur Íslands en þeirri, að beita löggjafarvaldi sínu til að samþykkja endurskoðuð stjórnarskipunarlög, sem tryggja landinu *alinnlenda, lögbundna stjórn í sjermálum þess* án *hringlanda* og *apturkippa,* uns sigur er fenginn í því máli.

---

væri svo alvarleg fyrir Danastjórn, að hún hlyti að knýja hana til tilslökunar og andsvara, *að* hún væri svo vænleg til verklegs árangurs o. s. frv., o. s. fsv. — Það er auðvitað hægðarleikur að slá þessum og þvílíkum ginningum fram endalaust.

Það er sannarlega *mikið fagnaðarefni,* að þjóðkjörnir og konungkjörnir þingmenn og deildir alþingis innbyrðis sje í samkvæmni að máli, sem er *rjett* og *heillavænlegt* fyrir land og lýð, en *meira sorgarefni* er það, ef slíkur kraptur beinist eindregið í ranga og skaðvænlega stefnu, eins og hjer átti sjer stað.

Hvort það *geti* verið *hræðsluefni* fyrir Danastjórn, að sjá þjóðfulltrúa Íslands varpa von sinni allri á dönsku ríkiseininguna, ætlum vjer hverjum einum fært að dæma um, sem um það hugsar, og þá engu síður um hitt, hvers verklegs árangurs Ísland muni mega vænta af slíku háttalagi, enda mun tíminn bráðlega leiða það í ljós, til viðbótar því sem þegar er komið fram úr þeirri átt!

Þetta var og skýlaus krafa 15 kjördæma landsins til alþingis 1895, eins og vjer höfum sýnt og sannað, og þetta sá líka og viðurkenndi meiri hluti þjóðfulltrúanna í neðri deild, og þannig varð það og niðurstaðan, þrátt fyrir allan andróður tillögumanna — að hin endurskoðaða stjórnarskrá frá 1893 til 1894 var á lögformlegan hátt samþykkt alveg óbreytt, en að vísu með litlum atkvæðamun, sem því miður sýnir, hve dauðans hvikulir fulltrúar þjóðarinnar geta reynst við hennar stærstu og alvarlegustu velferðar-mál (sbr. B-deild bls. 812, C-deild bls. 329—335.

Á þessum stað viljum vjer málinu til ýtarlegrar skýringar, eins og vjer áður gátum um, láta koma orðrjett álit minni hluta nefndarinnar í stjórnarskrármálinu, og er það þannig eins og sjá má í C-deild 215, bls. 276—271:

Þar sem jeg hef ekki getað orðið sammála hinum háttvirta meiri hluta nefndarinnar í stjórnarskrármálinu um framanritað nefndarálit og þá sjerstaklega niðurlagsatriðin, leyfi jeg mjer sem minni hluti nefndarinnar að gjöra hjer grein fyrir tillögum mínum um málið og helstu ástæðum fyrir þeim.

1. Frumvarp það til stjórnarskipunarlaga, sem liggur fyrir, hefur 4 sinnum verið samþykkt af báðum deildum alþingis, nær því samhljóða, nefnil. 1885, 1886, 1893 og 1894, og af neðri deild alþingis tvívegis, nefnil.

1887 og 1891. Öll aðalatriði þessa frumvarps voru og innifalin í frumvarpi því, sem neðri deild alþingis samþykkti 1889. — Þessi fasti rekspölur, sem alþingi, sjerstaklega neðri deild þess, hefur fylgt sleitulaust síðan 1885, eða í 10 ár, bæði í því að bera málefni þetta fram í frumvarpsformi stöðugt, og svo að því er efni frumvarpsins snertir, bendir til þess, að hvorttveggja þetta sje næst skapi sjálfrar þjóðarinnar, og hinar mörgu þingkosningar, sem farið hafa fram á þessu tímabili, styrkja ályktun þessa kröptuglega.

2. Sama ályktun verður og dregin af fundargjörðum flestra þingmálafunda þeirra, sem haldnir hafa verið í vor og sumar fyrir þing. Að vísu eru 6 kjördæmisfundir, sem leggja á móti því, að stjórnarskrármálið sje tekið upp í frumvarpsformi í þetta sinn. En úr hinum kjördæmunum eru raddir þessara funda ýmist beint og skýlaust með fyrirliggjandi frumvarpi óbreyttu, eða með málinu í frumvarpsformi, og á sama grundvelli og á undanförnum þingum. Og loks hafa þessi síðarnefndu kjördæmi tekið af tvímælin um hinar ríkjandi skoðanir í þeim á þessu efni, með fulltrúum þeim, er þau sendu á Þingvallafundinn 28. f. m.

3. Það er hvorttveggja, að mjer þykir þingsályktunarvegurinn óviðkunnanlegur fyrir lög-

gjafarþing, sjerstaklega í þessu máli, og svo hef jeg enga trú á, að sjálfstjórnarkröfur vorar fái *betri* árangur hjá konungi eða stjórn, ef hann er farinn. Atvik það, að neðri deild alþingis hvarflar nú frá þeim vegi, sem hún hefur haldið að minnsta kosti 7 næstliðin þing í röð og þótt hinn eini rjetti, hygg jeg að stjórnin skoði sem þreytu og dignun hjá þingi og þjóð, þrátt fyrir það, þótt aðalatriði málsins væru tekin upp í þingsályktunartillögu. En þessi skoðun hjá stjórninni væri bæði röng, af því óánægjan með stjórnarskrá vora og stjórnarfar fer einmitt sívaxandi, og skaðleg af því, að stjórnin er vön að rjettlæta synjanir sínar gagnvart oss, með tvísýni a þjóðarviljanum, hvenær sem hún sjer átyllu til þess.

Jeg get því ekki ráðið hinni háttvirtu deild til að samþykkja þingsályktunartillögu í þessu máli, heldur ræð henni þvert á móti eindregið til að samþykkja fyrirliggjandi frumvarp.

Neðri deild alþingis 29. júlí 1395.
Pjetur Jónsson.

Vjer viljum nú biðja menn að bera þetta minni hluta álit nákvæmlega saman við álit meiri hluta nefndarinnar, sem áður er einnig orðrjett tilgreint. — Mun stefnumunurinn þá eigi geta dulist neinum hugsandi manni, eigi að eins

á yfirborðinu, heldur einnig í málsins dýpstu rótum, sem mest er um vert.

Niðurstaða *minni* hlutans, *samþykkt á hinni endurskoðuðu stjórnarskrá,* er hugsunarrjett og sjálfsögð afleiðing af sögu endurskoðunarmálsins frá öndverðu, og þær ástæður og hvatir skilmerkilega tilgreindar þar, sem *áttu* að vera hverjum þjóðfulltrúa ljósar og óhjásneiðanlegar,—nauðsyn þjóðarinnar á einn veg, og sjálfsvirðing hennar og siðferðislegt þrek á hinn bóginn. —

Niðurstaða *meiri* hlutans þar á móti, *athvarfið til Danastjórnar,* eins og vjer höfum sýnt fram á, er blátt áfram, þegar öllu er á botninn hvolft, illa grímuklædd undirgefni og jákvæði í *þjóðarinnar* nafni, við þeim hótunum, sem Danastjórn hefur í hinum alþekktu upplýsingum 1885 og 1893 ögrað hinni íslensku þjóð með: *aukaþingskostnaði* og væntanlegum *staðfestingarsynjunum,* enda flaggar meiri hluta álitið með þessum tveimur meginástæðum svo hátt á stönginni, að engum sjáandi manni getur glapist sýn á þeim. Afltaug meiri hlutans er þannig lánuð frá Danastjórn sjálfri, og tvinnuð saman úr tveimur þáttum, ráðgjörðri auðvirðilegustu þjóðnirfilsástríðu Íslendinga og rótgrónum þrældómsanda gagnvart gjörræði Danastjórnar.

En hve marga tugi ára skyldi löggjafarvald hinnar íslensku þjóðar þurfa til þess, að má

þessa kúgunarglýju af augum fulltrúa hennar, svo að þeir sjái að þetta eru grýlur einar, og hvaða *þjóðfulltrúum* um víða veröld mundi annars koma til hugar, að láta slíkt fæla sig frá *lögmætri* framsókn eptir *lögheimiluðu* stjórnfrelsi þjóðarinnar — hennar veglegasta markmiði og hugsjón — nema þá, vjer segjum: nema þá *Íslendingum einum?*

Oss er það nú og sönn gleði, að geta vottað það með fullri vissu og sannfæringu, að stórum meiri hluta og jafnvel allflestum þingmanna í neðri deild hafi risið mjög hugur við því undir niðri, að styðja tillöguna með atkvæðum sínum, enda þótt ofmargir þeirra af ýmsum ástæðum — auðvitað samhliða af því að þeim ekki skildust nógu fljótt og nógu ljóst, í hvaða átt hún í raun og veru stefndi — hafi fyrir fortölur og kapp formælenda hennnr, laðast í fylgi með henni.

Ljósastur votturinn um þetta er ávarp það til konungs, sem neðri deild alþingis samþykkti í heild sinni, að undanteknum þeim þremur þingmönnum, sem vjer áður gátum um, og sem fyrir alvöru virtust hafa gjört tillöguna að politisku lífsspursmáli sínu.

Ávarp þetta, sem lesa má í C.-deild 492, bls. 536—537, dregur af allan efa um það, að neðri deild alþingis hafi ekki gjört alvöru úr því, að víkja frá þeim grundvelli og þeirri stefnu

sem alþingið, og sjerstaklega neðri deild þess hefur byggt á og fylgt síðan endurskoðunarmálið hófst. Á hinn bóginn er ótvíræðilega bent á það í ávarpinu, að orsökin til þess, að hin endurskoðaða stjórnarskrá ekki hafi öðlast konungalega staðfestingu, hljóti að vera sprottin af ábyrgðarleysi þessarar stjórnar, sem fjallar um löggjafar- og sjálfstjórnarmálefni Íslands, eða með öðrum orðum af því, að gagnvart alþingi standi *engin* stjórn við hönd konungs, sem hafi ábyrgð á gjörðum sínum fyrir því, eins og þingbundin konungsstjórn eptir eðli sínu, fortakslaust útheimtir.

Ræður það að líkindum, að alþingið verði knúð til að skerpa róðurinn framvegis í þá átt, að mótmæla því með fullri einurð og alvöru á þegnlegan hátt, að Danastjórn vasist lengur í löggjöf og stjórn Íslands sjerstaklegu málefna eins og við hefur gengist nú um fulla tvo tugi ára, síðan stjórnarskráin 5. jan 1774 1. gr. skýlaust hjet Íslandi stjórn út af fyrir sig í öllum þessum málum. Ætlum vjer þá, að eigi mundi fara fjarri, að Danastjórn gœti farið að skiljast, að apturhald hennar og staðfestingarsynjanir á lögum alþingis, sem ómótmælanlega er bersýnilegt brot gegn hinum gildandi stjórnarskipunarlögum Íslands, geti verið eins vel fallin til þess, að losa um samband Islands við Danmörku þegar fram í sækir, eins og til þess, að

binda land vort um aldur og æfi við stjórnarklafann í Kaupmannahöfn.

Í efri deild alþingis.

Á alþingistíðindunum sjer maður (C.-deild. yfirlit þingmála) að hin endurskoðaða stjórnarskrá, sem neðri deild samþykkti, eins og nú var sagt, er talin meðal þeirra, er ekki voru útrædd á þinginu, enda þótt engri breytingartillögu væri hreift í því máli. Sýnir þetta þegar að eitthvað annað en íhugun málsins og umræður um það hafi valdið þeim forlögum þess. Er það og eigi í fyrsta sinn, að efri deild hefur þagað í hel endurskoðunarmálið, eins og þjóðinni má vera minnisstætt, þótt nægur tími væri til að leiða það til lykta á lögformlegan hátt. — En jafnan hefur þess þó verið gætt af hálfu efri deildar þing að til, að ekki væri beinlínis brotin lög á málinu að *formi* til.

En efri deild alþingis 1895, ljet sjer ekki nægja að nema staðar við það. A.-deild bls. 337—353 fræðir oss um það, að þingmaður Skagfirðinga Jón Jakobsson, þá er forseti, eins og lög gjöra ráð fyrir, tók málið til umræðu 9. ágúst, gjörðist höfundur og formælandi *rökstuddrar dagskrár* til þess, að taka fyrir kverkar á öllum umræðum og lögskipaðri meðferð málsins. Naumast mundu menn nú trúa því, ef sjón væri eigi sögu ríkari, að tveir þjóðkjörn-

ir þingmenn, uppástungumaður og þingmaður Húnvetninga, Þorleifur Jónsson, hefðu ljeð sig til þess, að ganga í lið með konungkjörnum þingmönnum til þess að ná samþykkt á slíkri uppástungu með *ofbeldi* atkvæða, en svo leyfum vjer oss að nefna það fyrir sakir þess, að öllum hlaut að vera ljóst, að hjer ræddi um brot gegn fyrirmælum og anda þingskapa og stjórnarskrár sbr. þingsk. 12.—15. og 26. við 27. og 28. st.skr.

Þetta dæmi stendur að vísu þannig alveg eitt sjer í sögu hins löggefandi alþingis, en engu síður er það nýr, talandi sögulegur vitnisburður um það:

1. Að svo lítur út, að íslenska þjóðin sje enn svo hörmulega á vegi stödd, að hún ekki eigi völ á einum þremur tugum manna, sem treystandi sje til þess, að hlaupa ekki undan merkjum þjóðarinnar yfir í lið Danastjórnar á alþingi, þegar minnst varir og vest gegnir, þótt sæmd og rjettur þjóðar og þings sje í veði.
2. Að skipun efri deildar alþingis 1894 hafi *þess vegna getað* mistekist svo hraparlega, sem raun er á orðin, og saga alþingis mun sýna í bráð og lengd.
3. Að til eru þeir fulltrúar þjóðarinnar nú, sem ekki láta sjer það fyrir brjósti brenna, að gjörast frumkvöðlar að lögleysum gegn

stjórnarskrá og þingsköpum til að drepa niður lögskipaðri meðferð á því löggjafar- og landsrjettindamáli þjóðarinnar, sem velferð hennar stendur og fellur með.

Það er óbifanleg sannfæring vor, að fari slík að *tíðkast* breiðu spjótin á alþingi, þá muni þess ekki mjög langt að bíða, að þjóð Íslands verði fyrir, þeim refsidómi, sinnar eigin sögu, að hún hafi ekki verið því vaxin, að öðlast þá sjálfstjórn, er hún gat krafist eptir skýlausum lögum, því þegar alþingið sjálft fer að beita *ó-lögum* til að drepa niður löggjafarvaldinu, þá varpar það um leið sínu eigin sverði og skildi fyrir fætur sjer.

---

## Á alþingi 1897.

Þó hjer sje um óorðin viðburð að ræða, getum vjer samt ekki skilið svo við þetta mál, að vjer ekki rennum huganum til afdrifa þess, sem gjöra má, ef til vill, ráð fyrir, að sjálfstjórnarmál vort eigi í vændum enn á ný að sumri komandi, ef þjóðin lætur ekki það mál til sín taka svo til hlýtar sje.

Þjóðin sjer nú, hversu allmargir fulltrúar hennar á síðasta þingi byggðu þá ályktun á, ýmist óákveðnum ýmist ósamhljóða yfirlýsingum einna 6 kjördæma landsins, *að* hún væri farin að linast í framsókninni, og *að* skoðanir

hennar og kröfur væru komnar á ringulreið, *að* hún vildi hopa á hæl fyrir kostnaði þeim, sem óhjákvæmilega hlýtur að vera samfara eindregnu og staðföstu framhaldi á landsrjettindakröfu hennar og *að* hún ljeti sjer jafnvel blæða í augum ómak og fyrirhöfn, við ítrekaðar fulltrúakosningar, sem þó verða til þess, að sýna til hlýtar, hver staðfesta og alvara fylgi máli hennar, eða með öðrum orðum, hvort Íslandsþjóð metur meir: löglegan málsstað sinn, eða löglausan gjörræðismótþróa Danastjórnar. —

Vjer verðum hreinskilnislega að viðurkenna að *svo framarlega*, sem þessi ályktun væri *sönn* lýsing á þjóðarviljanum eða rjettara sagt þjóðarandanum á Íslandi, þá væri það ómótmælanlegt að þá kynslóð, sem nú lifir, skorti þau *fyrstu frumskilyrði* fyrir því, að berjast góðri og sigurvænlegri baráttu fyrir sjálfstjórnarrjettindum Íslands, og að hlutverk hennar og afreksverk í sögu lands vors, gæti *því* samkvæmt ekki orðið annað en það, að vera dáðlaus áhorfandi þess og sjónarvottur, að lögleysis stjórnarfyrirkomulagið danska festi sem fastast rætur á lífsleið niðja vorra og komandi kynslóða á Íslandi. Og satt að segja virðist oss þeim mönnum ærin vorkun, sem líkja sjálfstjórnarframsókn *alþingis* í heild sinni síðan 1887, fram á þenna dag, við afreksverk þess *manns*, sem eyðir fje og fjöri til þess, að bisa

við að færa stein úr stað, en lætur hann þó viljandi falla jafnharðan niður í sama farið — svo hringlandi og staðfestulaus hefur hún verið.

Slíkt *þingstarf* hlýtur að verða áhrifalítið og jafnvel skaðlegt, því það miðar, meðal annars til þess, að uppræta hina dýrmœtustu eigu þjóðarinnar: *sjálfsvirðing* og *sjálfstraust* á einn veg, og *trú* á sigursæld *sannleika* og *rjettlætis* á hinn bóginn. Og geta menn nú ætlast til, að Danastjórn, eins og hún hefur komið fram við Ísland, muni hlífast við að ganga á það lagið, eða að hún muni ekki sjá, að hún *í raun og veru* á hina traustustu formælendur í þeim þjóðfulltrúum Íslands að *nafninu* til, sem eru sjer úti um yfirskyns-ástæður til slíkra dóma um hugsunarhátt þjóðarinnar, sem vjer áður nefndum og flagga svo með þeim á alþingi?

En þó það sje nú fjarri skapi voru endurskoðunarmanna, eins og lýðum er ljóst, að ala með oss slíka ósanna og vanvirðandi dóma um þjóðarandann og þjóðarviljann á Íslandi, hlýtur þjóðin þó, þegar hún horfir á, eins og raun er á orðin, að sundurgerð og flokkaþráttur sem eru engu að síður byggðir á þeim á sjálfu alþingi, að kannast við, að það sje fortakslaus skylda hennar, að vitna í sínu eigin mali með ótvíræðum yfirlýsingum til fulltrúa sinna.

Þetta ætti þjóðinni í heild sinni að vera ljúft verk, og sjer í lagi kallar þessi þjóðarskylda hárri röddu til þeirra kjördæma landsins, sem gefið hafa átyllu til flokkadráttarins með yfirlýsingum sínum til alþingis 1895.

Oss kemur að vísu ekki til hugar, að *almenningsviljinn* í þessum hjeruðum hafi stýlað þessar yfirlýsingar, eður að bændum og búaliði

í Skagafjarðar- Húnavatns- Mýra- Vestmannaeyja- eða Skaptafellsþingum sje innanbrjósts, að blása eldi að stjórnfylgis flokkdráttum í landinu, en því fremur hljóta þeir að finna hjá sjer ríka hvöt til þess, að taka af öll tvímæli í því efni.

Sá sannleikur hefur svo þráfaldlega verið brýndur fyrir mönnum, og blasir svo beint við heilbrigðri skynsemi að afl og þýðing alþingis er á förum í þessu þýðingarmikla lífspursmáli þjóðarinnar, nema því eins að hún standi að baki þess, með eindrægni og staðfestu. Og furðu má það gegna, ef hin núlifandi kynslóð, með öllu því, sem rætt er um og gjört er fyrir menntun og menning alþýðu, með 50 ára minningu hins fornfræga, endurreista alþingis á vörunum, lætur 19. öldina kveðja svo land vort, að þessari spurningu sje aðeins svarað með hálfum huga. Vill alþjóð Íslands, með guðs og manna lög í höndum, leggja það í sölurnar, sem í hennar valdi stendur til þess að öðlast þá sjálfstjórn, sem hún hefur gjört að markmiði sínu meir en helming aldarinnar? Fyr mun Manna rigna af himnum ofan, fyrir fætur daufrar og dáðlausrar kynslóðar, en að Ísland verði stjórnfrjálst land, meðan þessari spurningu ekki er svarað hiklaust játandi af þjóð og þingi! Og fyr munum vjer horfa á dúfu hoppa út úr hrafnseggi, en að vjer sjáum Danastjórn beita sjer fyrir í *nokkru* því máli, sem miðar til að hrinda áfram pólitisku sjálfstæði Islands, eður yfir höfuð að losa um þá þungu og ranglátu, andlegu eigi síður en líkamlegu hlekki, sem fjötra hugsun og hönd hinnar íslensku þjóðar, þangað til *svo* bjartur dagur rennur upp á Íslandi, að hún með eigin augum sjái, að frelsi

og farsæld hennar *hlýtur* að koma innan að frá henni *sjálfri!*

Gætum þess einnig, að þetta nær engu síður til *allra* hinna *þýðingarmestu* þjóðmála vorra, en endurskoðunarmálsins sjálfs, sem þau standa í nánasta sambandi við, enda þótt vjer að þessu sinni höfum gjört það sjer í lagi að umtalsefni. Eins og vjer verðum að mynda farveg fyrir þann vatnsstraum, sem vjer viljum frjóvga land vort með, þannig verðum vjer að ryðja braut fyrir öllum sönnum *þjóðmenningarmálum* vorum með endurskoðun hinnar núgildandi stjórnarskrár, sem nú hefur um fulla tvo tugi ára lagt fjötur á framsókn þjóðar vorrar til frelsis og hagsælda, og drepið þannig í fæðingunni hennar bestu og dýrmætustu lífshreifingar. Gætið þess, að vjer getum aldrei lagt of mikið í sölurnar fyrir þjóðsjálfstæði og þjóðernisrjettindi vor.

Íslendingar! Beinið huganum til smáþjóðar þeirrar, sem einmitt nú á þessum dögum leggur fúslega líf og blóð, eignir og óðul á altari föðurlandsástarinnar. Eða þykist þjer ekki vera nógu aðkrepptir enn til þess, að geta metið þjóðfrelsi og þjóðrjettindi *svo* mikils, að þjer viljið skipa þeim æðri sess en tvídrægni, sundurlyndi og þjóðlegum heigulskap, að vjer eigi nefnum auðvirðilegustu aurapólitík, þegar um þjóðarinnar helgasta *skylduskatt* er að ræða? Latið engan utan þings eða innan blekkja yður með neitunarhótunum ráðgjafastjórnar Dana. Gleymið því ekki, að sú Danastjórn er *ólögmæt* stjórn Íslands sjerstöku mála, sem þrætan nú er um. Það er konungur vor einn og alþingi, sem hafa *lögmætt* löggjafaratkvæði um þau mál öll í heild sinni og undan-

tekningarlaust. Að því leyti sem staðfestingarsynjanir á lögum alþingis því stafa af afskiptum ráðgjafastjórnar Dana, þá hikum vjer eigi við að lýsa yfir því hvar sem er, að þær eru *lagabrot* gegn skýlausum fyrirmælum og fyrirheitum í gildandi stjórnarskipunarlögum Íslands. Á hinn bóginn hefur hin endurskoðaða stjórnarskrá, sem þjóð og þing hafa hvað eptir annað samþykkt, ótvíræða heimild í þessum sömu lögum, þó hún enn eigi hafi leitt oss til sigurs fyrir sakir þess, hve linlega og hvikult vjer höfum fylgt henni fram. En hvað á *það* lengi að ganga? Vjer spyrjum, hvað á *það* lengi að ganga, að *alþingi* meti meir *gjörræðis*-vald *ráðgjafastjórnar Dana*, en *sannleiks*- og *rjettlætis*-vald sjálfs sín sem *löggjafarþings* Íslands? Oss er þó að minnsta kosti innanhandar að hrinda ýmsum þjóðmálum vorum á rjettan rekspöl, ef vjer vildum beita löggjafaratkvæði alþingis *út í æsar*.

Íslendingar! Það er löggjafarþing yðar, sem hefur brugðið fótum fyrir yðar helstu velferðarmál. En þótt svo hafi tekist til þessa, að fulltrúar yðar hafi orðið til þess að fella það, sem þeir voru kosnir til að reisa, þá látið samt eigi hugfallast, heldur *knýið* þing yðar með almenningsálitinu til þess, að gjöra skyldu sína með óbifanlegri staðfestu og drengskap. Látið aðrar þjóðar sjá til hlýtar, að rjettlætið er yðar megin, en ranglætið Dana megin!



## Prentvillur.

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Bls. | 9 | línu | 10 | a. n.: | 15. nóv. | . les: *2. nóv.* |
| — | 15 | — | 5 | a. o.: | rjtetlætt . . | — *rjettlætt.* |
| — | 20 | — | 1 | a. o.: | hinur . . . | — *hinar.* |
| — | 26 | — | 6 | a. n.: | ei . . . . . . . | - *er.* |
| — | 40 | — | 3 | a. n.: | og það er | — *enda er það.* |
| — | 41 | — | 4 | a. n.: | frávist . . . | — *frávik.* |
| — | 44 | — | 1 | a. o.: | svoaa . . . | — *svona.* |
| — | 45 | — | 16 | a. n.: | orðin . . . | — *Orðin.* |
| — | 45 | — | 15 | a. n.: | og afkáralegt: | *eru afkáraleg.* |
| — | 45 | — | 9 | a, o.: | minnu . . . | — *minna.* |
| — | 57 | — | 11 | a. n.: | Íslunds . . | — *Íslands.* |
| — | 60 | — | 11 | a. o.: | 1841 . . . . | — *1851.* |
| — | 64 | — | 3 | a. n.: | ærumeiðngar: | *ærumeiðingar.* |
| — | 73 | — | 7 | a n.: | 1395 . . . . | — *1895.* |
| — | 76 | — | 10 | a. n.: | 1774 . . . . | — *1874.* |
| — | 77 | — | 7 | a. o.: | þeirra . . . | — *þeirra máls.* |
| — | 80 | — | 2 | a. n.: | 1887 . . . . | — *1881.* |

